# Andlegar
# Hugvekjur
til
# Qvøld-Lestra,
frá
## Páskum til Hvítasunnu,
eptir
## Christópher Christján Stúrm
edur hans máta,

samanteknar af


## Markúsi Magnússyni,
Stiptprófasti, Prófasti í Kjalarness Þingi og Sóknarpresti til Garda og Besfastada.


## III. Bindi.

Selst óinnbundid á 56 ß. reidu Silfurs.




Videyar Klaustri, 1834.

Prentad á Forlag Erfíngja *Drs.* M. Stephensens af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

## 1. Hugvekja.

Minni er eg, Drottinn! allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefir audsýnt mér. (1 Mósis b. 32, 10).

Til hvílíkra þacka hefir vor gódi Gud og Skapari unnid af oss fyrir þad, ad hann gaf oss skynsemdarfulla sálu, og hæfilega til ad þeckja hann! Yfrid hátt erum vér, med þeirri gáfu, upphafdir af honum yfir svo margar skapadar verur, og þó vér megum meta oss mikln lítilfjörlegri enn mörg hans handaverk önnur, einkum þegar vér samlíkjum oss vid þá yfrid veglegu og stórn himinkroppa, sem hans almáttuga hönd hefir útdreift um festíngar-himininn, verdum vér þó strax varir yfirburda vorra, ef vér ímyndum oss ad þessa himinkroppa vanti, sem þó er óliklegt, skynsemdarfulla innbúa, sem dádst géti, bædi ad fegurd þeirra hnatta, og síns

Skapara fullkomlegleikum. Sérhver skepna í dýranna ríki vegsamar, hver eptir hennar edli, Skapara sinn, en sá andi, sem hann hefir oss gjædda med, þeckir þó betur, og fær því dýrkad og vegsamad enn verduglegar hans vísdóm, almætti og gædsku. Þó ad sérhvert blómstrid lýsi hans vísdómi og almætti, sem þad mindadi svo fagurlega, þeckir þad þó ecki sjálft þann, er gjordi þad; vér þarámót þeckjum hann; vér vitum oss skapada eptir hans mind; hversu sæla megum vér þá ecki álita oss, vid þeckíngu þessa mikla Guds, hvers hátign og veldi himin og jord auglýsa, og þó má oss finnast þad enn miklu meira verdt, ad þessi mikli Gud hefir unnt oss ad þeckja sig, sem vorn ástríka og umhyggjusamasta Fodur, sem elskar oss miklu innilegar enn nockurr dygdugasti og ástríkasti fadir vor á medal fær elskad børn sín! ad hans velgjorníngar vid oss eru óteljandi, sem ecki einúngis uppfylla allar vorar þarfir og naudsynjar, heldur einnig allar vorar leyfilegar óskir, á því þreifum vér dags daglega; en þó yfirgnæfir allt, sem vér vitum ad Gud hefir vel vid oss gjort:, ad hann hefir

géfid ofs sinn eingétinn og elskulegann Son. Sá kjærleiki Guds yfirgengur allt hvad vor sála fær imindad sér. O! ad vér fengjum verduglega prísad þeisi Guds kjærleiks undur, ædri øllum skilníngi og allri náttúrlegri þeckíngu. Hver skynsemi og eptirþánka gjædd sála, sem veit sig ad-njotandi þvílíkra velgjørnínga, og sig svo hátt setta, af kjærleikans Gudi, á Skøpunarverksins troppu, og nýtur svo margra røksemda Fodurelsku hans; hver segi eg, vildi ecki elska þvílíkann Fodur, þvílíkann velgjørara, sem er eintómur kjærleiki, og hvers gjørvøll rádstafan og umhyggja fyrir ofs, ber vitni um elsku þess ástúdlegasta Fodurs? Hversu megum vér þá ecki skélfast kaldsinni vort og deyfd vid þvílíkann kjærleika, á hverjum vér þreifa megum sífeldt bædi úngir og gamlir, og sem þó hrærir svo lítid vort kalda hjarta? Uppá svo margvíslegann hátt hefir Gud sýnt og sannfært ofs um þad: ad vor sáluhjálplega og heilladrjúgasta skylda væri sú: ad elska hann yfir alla hluti fram, hann, sem elskadi ofs svo heitt ad fyrra bragdi; en æ! hversu fáir af ofs gæta rétt þessarar skyldu? hversu fáir

kannast, med verdugu þacklæti, vid Skapara síns óþreytanlegu velgjorninga; Láttu þér samt ecki leidast, besti Fadir! ad gjøra oss óþacklátum sképnum þínum gott; þín óþreytanlega nád, sem enn á þessum degi verid hefir vakandi yfir oss, styrkir trú vora þar um: ad med enda þessa dags muni þó þinn kjærleiki til vor ecki enda taka. O! vér játum þad eins medal þinna nádarverkana, ad vér ennþá drøgum vorn anda, enn þá fáum oss hrært og lifum, og vogum því enn framvegis ad vænta af þinni sømu trúføstu nád, ad bera viljir vorkunsemi med veikleika vorum; já, alls þess, sem útkrefst til eblíngar vorrar sønnu lucku, væntum vér med efalausri fullvissu um þína Fødurgædsku; og allteins þó þinu alvísa rádi þócknast mætti ad láta oss nockrar mótlætíngar til handa bera, viljum vér og telja þær med þínum velgjørníngum, og audmjúkir kyssa þá kjæru Fødurhønd, sem oss til besta typtar oss. Þeirrar nádar bidjum vér þig, trúfasti Fadir! ad þú viljir kénna oss ad þeckja og þacka þinn kjærleika í øllu því, sem þú lætur vid oss framkoma, svo vér læra mættum ad elska þig af gjørvøllu hjarta

því framar, sem vér fáum betur þinn kjærleika þecktann.

## 2. Hugvekja.

*Hverr, sem situr undir skjóli hins Hærsta og skugga hins Almáttuga, sá segir til Drottins: mitt traust og mitt slot, minn Gud! á hvern eg vona. (Ps. 91, 1. 2).*

Værum vér ecki med efalausri fullvíssu sannfærdir um þad, ad Gud er til, og ad þessi Gud er vor Skapari, og elskuríkur Fadir, mættum vér med ángist og qvída sjá sérhvern dag vors lífs renna upp, og leggjast med ørvæntíngu í sæng vora ad qvøldi. Vér sæum oss þá búnar mædur og mótlætíngar, en vissum oss þó einkis léttirs í þeim ad leita; vér sæum fyrir oss liggja sár sorga tilfelli, en vissum þá hvergi ad fá þeirra bót. Veikleika vorn og vanmátt þeckjum vér, en hefdum þá hvergi styrks ad vænta. Fyrir daudanum blytum vér qvídandi vera hvert augnablik, því þá hefdum vér enga von betra lífs. Já, ef ad vér vissum ecki ad Gud er til, og ad þessi Gud er vor ástríkur Fadir, þá mætti þad megn ólucka heita, ad vera

fæddur, straff ad lifa og skélfing ad deya. En lofadur veri Gud! ad vér vitum hann vera til; vér vitum á hvern vér trúum, og á hvern vér voga megum ad setja vort trúnadar-traust; ad vér þeckjum þennann vorn Gud, og þvílíkann Gud ad vera, þad er vor lucka í lífi og dauda, og þetta er þad, sem gèfur oss þad øruggasta trúnadar-traust og hugarmód á þessari stundu. Þessi vor Gud, hann er mikill, óendanleg er hans makt til ad hjálpa, vernda og vardveita; ótakmørkud er hans makt til ad umbuna og ad straffa; hversu huggunarrík má oss ecki vera þessi fullvissa, þegar vér hugleidum vanmátt vorn, og vorra medbrædra kraptleysi oss til hjálpar, þegar oss álíggur, en sjáum þarámót vondsku ógudlegra manna leggja tálsnørur í veginn fyrir oss; en í hversu léttu rúmi má oss þá ecki allt þetta liggja, því hvad fær oss vantad, hvad má oss granda, þegar almáttugur Gud stydur oss, styrkir og verndar oss? þó vort líf sé samantvinnad af mørgum undarlegum og óskiljanlegum tilfellum, fulltreystum vér þó samt, ad Stjórnari vors lífs leidi allt hvad oss mætir til farsælustu afdrifa.

Þ éað vér reyna mættum flátskap og undirferli, svik og pretti af vondum mönnum, nægir oss sú sannfæríng, að Guð er sannorður og óumbreytanlega trúfastur; að hans fyrirheit standa stöðug, og að hans orð bregðast aldrei; þó heimurinn vilji ecki líta við oss, vorir bestu vinir snúi við oss bakinu, er oss það samt fullnóg huggun að Guð elskar oss, að hann er oss til handa einskjær náð, miskun og kjærleiki; því skyldum vér þá ecki álíta hann vora ædstu og einustu huggun og gledi, ecki setja á hann vort gjörvalla trúnaðar-traust? já, Drottinn vor Guð! vor unadsemd sé að trúa á þig, vor ástundan að elska þig og óttast, og vor stærsta lucka að lifa og deya þér. Með hvílíku hugarfari verða vors Guðs miklu eginlegleikar oss óuppausanleg huggunar og gleði uppspretta, en hinum ógudlegu skélfilegir. Þegar gjörvöll veroldin titrar fyrir þinu almætti, mikli Guð! gleð eg mig af því, að þú ert minn styrkur; þegar sá ógudlegi skélfist þína allstaðar nálægð og alvitsku, þá gledur það mig, að þú, Guð! ert mér nálægur, sjer og þeckir alla mína nauð, veitst hvers eg viðþarf og á hver-

ju mér liggur; þegar þeim ógudlega liggur vid örvæntun af ótta og qvída, þegar hann minnist þíns hegnandaréttlætis, gled eg mig vid þad sama réttlæti, sem mér er ordid svo huggunarríkt vegna endurlausnar míns Jesú. Þessar dýrmætu hugganir munu útbreida blessun og náð yfir vort gjörvalla líf, í öllum þess margföldu biltíngum og tilfellum, géfa oss sinnis rósemi, ánægju og glada von. O vor gódi Gud! vyrdstú ad efla og styrkja þessa von í vorum hjörtum med þínum góda Anda; æ! láttú oss eilíflega vona á þína náð; vyrdstú einkum ad styrkja von og trú hjá oss, þegar ad því kémur, ad vér skulum skilja vid þetta stundlega; géfi oss þá þinn Andi gledilega fullvissu um, ad vér séum þín börn, hverjum fyribúin sé eilíf vistarvera hjá þér, hvar vér lært fáum betur ad þeckja þig og elska eilíflega.

## 3. Hugvekja.

Lærid af mér, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur. (Matth. 11.)

Þegar sá réttkristni hugleidir, hversu annt vorum guddómlega trúar-

bragda Stiptara var um þad, 'ad fá iñ·rættañ sannañ kjærleika manna á milli hér á jördu, má honum nærri hjarta gánga, ad verda þess daglega var, hvérsu kjærleiksleysi almennt tekur yfirhönd í heiminum. Svo hann fái sér föstum haldid vid Jesú kjærleiks bodord, ætti honum um eckért ad vera framar hug·arhaldid og eckért ánægjusamara, enn ad minnast opt á og vyrda fyrir sér þá miklu mannelsku, sem Jesús auglýsti, á medan hann umgéckst hér á jördu; og um hvad ætti oss, sem berum kristid nafn, og lýsa egnum med gjörvollu framferdi voru, ad vér séum Krists sannir lærisveinar, annara vera, enn ad læra af hans dæmi, sem oss er settur til eptirbreytnis, ad umgángast brædur vora med líkum kjærleika og Jesús? Sjáum hvérsu hans lærdómar, hans gjörvalla framferdi, hans umgengni, hans pína og daudi, var allt eintómur kjærleiki, og þó ad vér hefdum ecki þau rök mannelsku hans, ad hann offradi sínu lífi og lífs·lucku fyrir veraldarinnar velferd, mætti þó hans lærdómur sannfæra oss um hans kjærleiksfulla hjartalag, þad eginlega og verulega innihald allra hans

boda, allra hans kénnínga og daglega tals, eru alvarlegustu uppbvatníngar til kjærleika, og allt oss fagurt eptirdæmi kjærleikans. O! hversu mildilega taladi hann til hinna syndugu! hversu vorkunnarsamlega til hinna vesælu! hversu ástúdlegar voru hans áminníngar! hversu kreptugar og hugbreystandi hans hugganir! en, þó hans tal og kénníngar væru yndælar og hrærandi, vóru þó enn addáanlegri hans athafnir, sem gjørvallar, hér á jørdunni, voru miskunarríkir velgjørníngar; enginn stadur var svo fjarlægur, ad hann ekki flýtti sér þángad, þegar á hjálp hans lá; engin manneskja svo lítilmótleg, ad hann ekki rétti henni sína hjálpar-hønd; engin eymd svo lítil, ad hann ekki hrærdist til medaumkunar; enginn ørdugleiki, engin mæda, engin þjáníng var svo stór, ad hann ekki legdi hana á sig, til þess ad efla mannanna lucku og heillir med einhverju móti. O! hversu ástúdlegt mun ekki hans andlit hafa verid, þegar hann tók børnin sér í fáng, kyssti og blessadi þau! Hverr fær útmálad þá kjærleiksfullu þolinmædi, med hverri hann sá í gégnum fíngur vid sinna vina breysk-

leika! þá vidqvœmu medlídun, er hann bar med sínna brœdra naud! en hverr undrast þá minna yfir þeirri hógvœrd, sem hann audsýndi óvinum sínum, midt í því þeir ofsóktu hann eda misþyrmdu honum. En lotníng og undrun ega þó ecki ad vera þær einustu verkanir, sem Jesú dygdadœmi má vekja hjá oss; vér egum med því ad láta oss upphvetja til ad feta í Jesú fótspor, ad líkjast honum í voru gjørvalla framferdi. Hversu mørg tœkifœri géfast oss ecki til þess í umgengni vid brœdur vora, sem allir hafa rétt til ad krefja vorn kjærleika? Vor mikilvœgasta skylda er því: ad sýna í allri vorri umgengni, ad vér séum lærisveinar þess himneska Mañelskara, hvers nafn vér berum; á oss egum vér ad láta þad augljóslega sjá, hversu Jesú lærdómur orkar ad mynda sanna mannelskara. En þú, gódi Jesú! vyrdstú ad uppfylla vor hjørtu sannri mannelsku! vyrdstú ad gjøra oss vidqvœma vid brœdra vorra naud og styrkja oss til ad létta undir eymdir þeirra; hjálpadú oss til œtíd ad gjøra gott, þegar tœkifœri þar til géfast, án þess ad þreytast vegna heimsins óþacklœtis. Med þvílíkum

þenkíngarhætti fáum vér sjálfir gjört oss lífið yndælt; vér ávinnum oss ecki ein-úngis þar með það æru nafn, að heita mannelskarar, heldur, hvað eendanlega er meira verdt, að kallast þínir vinir, ó Jesú! og vera vissir um þinn kjærleika, en þegar vér höfum þessa vissu, þá er og veiðar vor lucka ómetanleg, bædi í þessu og hinu komanda lífi.

## 4. Hugvekja.

Það hefi eg fundið, að allt hvað Guð gjörir manneskjunni, er vel gjört. (Pred. 7).

Þessa játníngu má víssulega hverr einn af oss sérílagi gjöra um Guðs vegleiðslu þá, sem hann sjálfur varð var við í gégnum þetta líf; hvað allir himnar fortelja, hvað gjörvöll veroldin sannar, megum vér og játa, í tilliti til vors egin lífs; Guð hefir allt gjört vel við oss! hversu blygðunarfullur má nú að líkindum margur af oss verða, þegar vér samanberum játníngu þessa við margar umqvartanir vorar fyrrmeir, yfir stjórnun Guðs oss til handa; þegar Drottinn auðmýkti oss, þegar hans

vísa ráð sá það nytsamlegt, að leiða oss í gégnum undarlega vegu, og að hylja um stund sitt andlit fyrir oss, hversu þúngsinna og huglausir urðum vér þá ecki? hversu torveldt var oss þá að ná sannfæríngu um það: að allt hvað Guð gjörði, væri vel gjört! en nú eptirá, þegar Guðs huldu vegir eru orðnir oss augljósari; nú, þá hrygðardagarnir eru á enda, og Guð hefir á ný huggað og gladt oss, nú megum vér með jafnmik-illi blygðun og sannfæríngu játa: að Drottinn hafi allt gjört vel oss til handa; þessi egin reynsla vors liðna lífs, kann að gjöra oss vitra á komandi tímunum. Það er ecki ólíklegt, að oss beri enn þá, á meðan vér lifum, tilfelli þau að hönd-um er veki, eins og áður, efasemð í vorri sálu, um Guðs vísu og náðugu stjórnun. Það kynni að mæta oss, hvar um vér þenktum í hjarta voru eins og áður, en hvað þá? gét eg nú og sagt um þessi tilfelli, sem mér mæta: að Guð gjöri allt vel! enn þá býðst oss tækifærið til að sýna vora stöðuga trú og vort óbifanlega trúnaðar-traust á Guði; þá á vors Guðs undrunarverða vegleiðsla á fyrri dögunum, að minna

oss á hans vísdóm og náð, og þá megum vér víssulega játa, midt undir þeim mæðusömustu mótlætíngum, að allteins með því, að senda oss þær, gjörtr hann vel við oss. Ómissanlegt er það fyrir sinnis rósemi vora, að þetta trúnaðar-traust til Guðs náðar, sem allt gjörir vel, örfist og vaxi hjá oss sífeldlega því betur og því öblugar, sem vér sannfærumst þar um framar, að gjörvallur tilgángur Guðs við oss sé góður og sáluhjálplegur; því rólegra verður vort hjarta, og því luckulegri og ánægðari vorir dagar hér á jörðunni; vyrðstú því, góði Faðir! sem vilt unna oss þessarar sönnu lucku, að styrkja oss ætíð betur og betur í þessu trúnaðar-trausti, en jafnframt að dempa þá efasemd æ meir og meir um gæðsku þinnar stjórnunar, sem svo opt ollir hjarta voru órósemi; upplýstú vor augu, svo að vér sjáum þinnar náðar dásemdar-verk á oss, og géfðú oss þacklátt hjarta, svo vér gladir prísum þína náð, sem þú lætur oss í tje dags daglega; láttú það verða vora kjærustu og dýrmætustu skyldu að géfa þér í öllu dýrðina, og hjálpa þú oss til að útbreiða hana um

heiminn; en einkum og allrahelzt, géf þú oss náð til að dýrka þig með voru líferni, og að votta með ráðvöndu framferði þann kjærleika, sem vér erum þér, vor Guð! skyldugir um. Þinni náðugu vegleiðslu felum vér oss enn á ný, á vald; allt hvað þín Fodur forsjón lætur oss mæta, skal vera oss kjærkomið, á meðan þú ecki lætur þína blessun og aðstoð frá oss víkja. Vér viljum leitast við af øllu megni, að æfa oss í þeirri ørdugu skyldu, allteins þá að vona á þig, þegar þú hylur fyrir oss þitt andlit; allteins þá að viðurkénna gæðsku þinnar stjórnunar, þegar hún finnst oss ógéðfeld; því æfðari sem vér verðum her í, því luckusælla verður vort líf.

## 5. Hugvekja.

Til þín var mér varpað frá móðurlífi, þú varst minn Guð frá lífi minnar móður.

Enginn, sem þeckir Guð, og trúir því, að hans forsjón stjórni øllum hlutum, mun fá því neitað, að hann dags daglega njóti velgjørninga hans; en munu þá þeir allir, sem njóta þess-

ara Guds velgjörnínga, vídurkénna þá með þacklátu hjarta? vyrdast oss þeir ecki gleymdir hjá fleirstum, jafnódum og menn verda þeirra adnjótandi? hvört munu hinir oss þá í ferskara minni, sem vér þágum vid inngáng vorn í heiminn, vid byrjun lífs vors, þegar Guds velgjörníngar þó létu sig einna áþreifanlegast í ljósi. Þessir velgjörníngar Guds vid oss í kríngumstædum fædíngar vorrar og á barnsaldrinum, ættu ad vekja vorn eptirþánka á sérhvörjum degi vors lífs; á þá ætti oss ad minna sérhvört úngt ómálga barn, sem oss kémur fyrir sjónir, þar vér sjá megum hvörsu hjálparþurfandi úngbarnid er, því miklu heldur, sem þeir eru til, er ad lokunum munu óska sér, aldrei ad hafa verid fæddir, en formæla sínum fædíngardegi, hvorra vesæla ástand vekja ætti hjá oss því heitara þacklæti til Guds, fyrir vora betri fædíngar heill. En, erum vér ecki of drambsamir og of ógætnir, til ad minnast þessara velgjörnínga, og prísa Gud fyrir þá? Engu gleymum vér fljótara enn þegnum velgjörníngum, ecki sízt vors goda Guds; varla minnumst vér þeirr-

ar nádar, sem hann audsýndi oss i gjær; hvørsu miklu sidur mun oss þá reka minni til hinna, sem vér notid høfum fyrir 20 árum, eda máské laungu ádur. Engu ad sidur er þad þó einhvør mikilvægasta skylda vor, ad láta vorn huga hvarfla til barndóms ára vorra, og á þeim ad finna ótal merki Guds forsjónar, og vidurkénna hana med audmýkt og þacklæti; á hvørsu marga velgjørninga Guds munu ecki þessi ár mega minna oss, ef vér géfum náqvæmar gætur ad, hvad oss á þeim mætt hefir! til fædingar tíma vors rennum vér þá fyrst augunum: Ecki var þad hendingu einni ad þacka, ad vér sáum fyrst dagsins ljós á þeim tíma þad skédi, og ecki á ødrum; hvørr af oss má ecki meta þad yfrid stóra lucku, ad vér ecki fæddumst á þeim tímum, þegar blindni og hjátrú drottnudu, nærfelldt yfir gjørvallann heiminn, heldur á þeim, þegar forsjón Guds lét skynseminnar og opinberingarinnar ljós tendrad lýsa um vídar heimsins álfur! Ecki sidur høfum vér orsok til ad íhuga og ad þacka Gudi þann fædingarstad vér hlutum. Hversu óluck-

lega mættum vér ecki halda oss, hefd-
um vér fæddir verid á medal heidinna
þjóda eda villumanna? en ad Gud hefir
látid oss fædast á þessu landi, á medal
sidsamra manna, midt í kristninni, hvar
allt hefir sameinad sig til nota og ánægju
fyrir oss; hvílíka lucku megum vér ecki
meta þad? og enn framar: þegar vér
hugleidum, hvørsu undrunarlega Gud
leiddi oss í gégnum vor barndóms=ár,
hvørsu vidqvæmann kjærleika hann vakti
og vidhéldt til vor, hjá foreldrum vor-
um og þeim, sem oss fóstrudu, sem ólu
önn fyrir ollu því, er vér vidþurftum.
En, hvørsu megum vér þá dádst ad vard-
veitslu Guds, sem verndadi oss, á þess-
um ómálga-árum, frá svo margfoldum
háskasemdum, sem vorn únga líf hefdi
mátt granda, og héldt svo trúlega í hønd
vors barndóms, ad vér ecki steyttum fót
vorn á steini? Já, enn framar: gladt
oss med morgum saklausum úngdóms
lystisemdum! Hvørsu mættum vér nú
ecki álitast eptirþánkalausir, já, straffs-
verdir nú, þegar vér erum til vits og ára
komnir, og hofum reynt þessa trúfostu
vegleidslu vors Guds, og hvørsu hans
forsjón hefir fodurlega tekid sér af høgum

vorrar barnæsku? já, hvørsu straffs-verdir, segi eg, ef ad vér hér eptir bera skyldum minnstu efasemd framvegis um vísdóm og gædsku hans vega? Nei! reynsla vorra fyrri daga skal hér eptir þéna oss til uppvakníngar, til ad setja á komandi tímunum, øruggt trúnadar-traust til hans almáttugu verndar. Í øllum þeim tilfellum lífsins, sem oss mæta, viljum vér renna vorum huga aptur til vorra úngdóms-ára; og þegar mæda og mótlætíngar bera oss ad høndum, skal endurminníng Guds fødurlegu forsjónar og handleidslu, verndar og varatektar á æsku-árum vorum, styrkja hjá oss þad trúnadar-traust: ad sá Gud, sem reyndist oss svo trúfastur Fadir þegar frá módurlífi, muni ekki yfirgéfa oss á vorum eldri árum; hafi hann þá svo ástúdlega sorgad fyrir oss, þegar vér vórum svo veikir og hjálpar-þurfandi, mun hañ vissulega eñ fyrir oss sorga, þad eptir er. Í þessari von høldum vér áfram vors lífs vedhlaupi, med þeirri í kvøld endurnýudu bæn til þín, vor gódi Fadir! ad þú viljir framvegis láta þína nád, og blessun yfir oss hvíla; því til þín var oss varpad frá módur-

lifi, þú varst vor Gud frá módurlifi, þú munt og vera vor Gud og vor sáluhjálp bædi í tíma og eilífd.

## 6. Hugvekja.

Af Guds nád er eg þad eg er. (1 Cor. 15).

Því lengur sem vér lifum, því betur sannfærumst vér um vanmegni vort; vér sjáum oss tídum af háskasemdum umkríngda, sem vér med øllum vorum kroptum og adburdum ecki fáum afstýrt; vér keppumst af øllu megni eptir ad ná því, sem vér meintum efla mundi luckn vora, en vanmáttur vor gjørdi oss þad ómøgulegt; dags daglega komumst vér ad raun um þad hvørsu lítid mannsképnan má sér, hvad lítid hún má stóla uppá sjálfa sig. Þegar oss gengur allt ad óskum og eckért blæs á móti, hugsum vér oss óhulta fyrir allskonar mædu og mótlætíngum; vér meinum oss þá fría fyrir øllum þreyngíngum, og gledjum oss vid þad, ad vor lucka muni eins varanleg, og vorar lucknóskir; en midt í því vér þannig gledjum oss vid lucku vora, sem vér álítum óraskanlega, er ógjæfan fyrir dyrunum, og vér, sem

heimskulega stólundum uppá! luckunnar stodugl ynd i erum, fyrr eñ vér afvissum, nidurhrapadir í eymdaña afgrunn, hvadan vér, med allri vorri orku, fengjum oss enganveginn bjargad; svo lítils erum vér megnandi af siálfs dádum, med öllum vorum atburdum og ómaki, til ad svipta oss eymdum og óluckn, sem oss svo audveldlega mœta kunna, en þó rádum vér enn sídur fyri því, ad efla vora luckn og gjøra vora velferd stoduga; ó-teljanlega margar hindranir mœta, sem gjøra oss ørdugt, já, ómøgulegt, ad ná því takmarki, sem vér stefnum til, því þúsund tilfelli gjøra ad engu vora ákøfustu kappsmuni. Þetta reynum vér nú daglega, og þó erum vér svo einfaldir, ad hugsa ad ná med eginn kroptum vornm þeirri heill, sem oss lángar svo mjøg eptir. Stundum vonum vér, med skarpskygni vorri, ad fá útgrundad Forsjónarinnar huldu vegu, ad sjá lángt fram í ókomnar tídir, og finna hentug medöl til luckn vorrar; stundum œtlum vér med mœtti vorum, metordum og ríkdómi, ad gjøra vora jardnesku luckn varanlega; stundum stólum vér uppá vina vorra adstod og hjálp oss til luckubóta;

en loksins, þegar vér höfdum allt þad reynt, sem vér hugdum ad fengi eblt og styrkt lucku vora, komumst vér ad raun um: ad allt vort skarpsinni, allur vor máttur, allt vort ríkidæmi, allir vorir vina atburdir, voru til forgéfins; eckert af þessu megnadi ad gjöra oss luckusæla, og hvad tókum vér þá til bragds? vér veinum skjótt og kløgum yfir vorum óblídu luckukjörum, í þess stad, ad vér ættum ad klaga yfir sjálfum oss, og gjöra oss bríxlyrdi fyrir heimsku vora og vantrú. O! látum oss því ecki lengur qvelja oss sjálfa med þvílíkri fávíslegri ábyggju og órósemi, heldur taka fyrir oss þann ásetníng, hér eptir ad slá frá oss öllum harmatölum, en setja þarámóti öruggt trúnadar-traust til vors góda Guds, og vænta af honum einum allrar lucku og blessunar! sú von mun oss aldrei á tálar draga; í öllum kríngumstædum, í öllum umbiltíngum, munum vér þad hjá honum finna, sem vér ádur forgéfins leitad höfdum eptir, bædi hjá sjálfum oss og gjörvallri Veröldinni. Hédanaf skulum vér því fela oss þér á vald, vor alvísi, nádugi Skapari! því framar, sem vér reynum vorn vanmátt,

þvi trúaroruggari viljum vér reida oss uppá þitt almætti; því optar vér verdum varir vid heimsins kjærleiksleysi, því hugguuarríkari skal oss verda þín náð; því betur sem vér lærum ad þeckja vorrar skynsemis veikleika, því oruggari viljum vér treysta þinum óendanlega vísdómi. Hvílíka fridun, hvílíka résemi munum vér þá ecki finna midt í øllum luckunnar umbiltíngum? hvørsu ánægjuríka huggun munum vér þá ecki smacka í velgengni, og hugsvølun í mótlæti? med þacklátu hrærdu hjarta munum vér þá prísa þitt nafn, og vídfrægja þína velgjørnínga, Drottinn vor Gud! vort trúnadartraust og vor styrkleiki!

## 7. Hugvekja.

*Kristur hefir oss eptirdæmi géfid til þess, vér skyldum feta í hans fótspor. (1 Pét. 2.)*

Af sérhvørjum degi, sem vér lifum, ber oss vandlega ad yfirvega, hvørsu margføld sú skylda er, sem oss liggur á herdum, medan vér lifum á jørdunni; þessa fáum vér aldrei betur gjætt, enn ef vér hugleidum, ad vér erum kristnir, og berum hans nafn, hvørs dæmi á ad vera

vor regla til eptirbreytíngar, hverri vér kappkosta egum ad fylgja í øllum lífsins tilfellum, og í sérhverju lífs ástandi og kríngumstædum. Þegar vér gætum þess, hvørsu Jesús, sem vér høfum þjónustu svarid, er upphafinn yfir alla daudlega, ad fyrir honum skulu sig beygja øll kné á himni og jørdu, má þad ecki litid auka ástundun vora og kappsmuni eptir ad fullnægja skyldu vorri, hvørnig sem á-standa kynni, og hvørsu ørdugt sem oss mætti falla þad. Hugleidtú því, madur! ad þú ert kristinn, og láttú þér þ..d, i dagleguin fyritækjum, aldrei úr minni lída. Engin athøfn þín, enginn lifernisháttur fái nockurntíma útrýmt úr hugá þínum þessari umþeukíngu. Yfirvega þú þá lucku, hvørrar þú nýtur, ad þjóna þeim Herra, sem bædi í þessu og hinu komanda lífi, vill umbuna þér sérhvad, sem þú gjørir af elsku til hans og hlýdni vid hans bodord, og þad med því yfir-gnæfanlegri verdlaunum, sem hlýdni þín kostar þig ørdugri afneitun þíns eginn vilja. Hugleidtú hvad Jesús hefir gjørt fyrir þig til þess, ad þú yrdir hluttakandi þeirrar æru, ad vera hans elskulegür þjón. Láttú þær píslir, sem Jes-

ús leid til'ad! gjora þig hólpinn, þér aldrei úr minni líða, aldrei þá trú og kjærleika réna, med hvorjum þú átt ad elska hann. Þú ert kristinn. þú átt því ad breyta eptir Lausnara þínum í því, ad gjora allt hvad þér er mögulegt, til lucku og heilla medbrædra þinna, eins og hann, sem offradi sér sjálfum þeim til góds; vertú því ástundunarsamur og ydinn í þínu kalli, en hugleidtú ætíd, ad öll lucka og blessan erfidis þíns, kémur frá honum, sem gaf þér lyst og krapta til erfidis. Þá ert kristinn, hugsadú til þess, þegar syndin ætlar ad locka þig; þegar skíngjædi nockur ætla ad ginna þína-sansa og tilhneigíngar til ad brjóta Guds bodord, minnstú þá þess, hvörsu dýrt Jesús hefir þig keyptann, og hvílík skylda á þér hvílir, ad lifa og deya þínum Endurlausnara. Lát þú aldrei Guds þíns allstadar nálægd hvarfla þér úr hjarta; samanjafnadú veraldarinnar fáfengilega glansa, sem er hégómleg dýrd, vid hin varanlegu gædi, sem himininn hefir þér geymd, og þegar þú sier jardneskann óstedugleika og fánytju, þá vel þér heldur þá varanlegu og dýrmætu heill, sem trúlyndi þínu og dygd er á

himnum geymd. Sem kristinn madur veitstú, ad þú ert áqvardadur, ecki ad eins fyrir þetta, heldur miklu framar hid komanda líf; gjættú því þessa sífeldt og hugleid, hvort meira beri ad meta. Í øllum mótdrægum tilfellum, sem mæta þér, minstú þess, ad þú ert kristinn; vertú því hugstyrkur, og vanvyrd þú ecki nafn þitt med møgli og óánægju, því kristinndómurinn heitir þér þeirri dýrmætustu umbun og gledirikustu endaloka allra þinna sorgardaga. En einkum og allrahelzt vid adkomu daudans minnstú þess, ad þú ert kristinn, sé þér þá til þess ræna og ró leyfd í þinni helsótt; hafir þú ádur í þínu lífi tamid þér kristilegt hugarfar og framferdi, máttú, þegar þessi sídasti máttugi óvinur nálgast þig, óskélfdur og rór taka honum, og segja, í krapti trúar þinnar: Daudi! eg óttast eigi, abl þitt né valded gyldt! eg er kristinn, og dey ecki, heldur sofna, svo ad eg uppvaknadur lifi sæll um eilífd.

---

8. Hug-

# 8. Hugvekja.

Látid ydar ljós lýsa svo fyrir mennum, ad þeir sjái ydar gódverk, og dýrki Fødur ydar á himnum.

Sérhvørr dagurinn, sem vér lifum krefur af ofs, vandlega ad geyma vissar skyldur, sem eptir ásigkomulagi og kríngumstædum þeim, sem vér lifum í, eru ymisligar. Á hvørjum degi egum vér ad hafa skyldur þessar ofs fyrir augum, ef vér ecki gleyma viljum hvar til vér erum skapadir, og til hvørs vér egum ad lifa. Í ydjuleysi egum vér víst ecki ad eyda vorum døgum; sífeldt egum vér kappkosta, ad gjøra nockud gott, og láta ofs annt um, svo framt ofs er mogulegt, ad útrýma løstum en útbreida dygdir, og gjøra allt þad gott, sem vér megnum í verøldinni; hús þad, í hvørju vér búum, manneskjur þær, er vér daglega umgaungumst, er vor verøld, sem ofs er vidkomandi, og þær eigum vér ad leitast vid ad betra og bæta. Vér egum á sídan reikníng ad standa fyrir þad, hvørsu mikid eda lítid vér gjørt høfum, til ad vidhalda sønnum Guds ótta hjá þeim, sem eru ofs áhángandi,

ellegar ad minsta kosti, komid í veg fyr- ir drottnandi lesti hjá þeim. Á högum vorum og ásigkomulagi má standa hvern- inn sem vill, oss er þó ætíd mögulegt ad studla til nockurs góds, og hindra nockud íllt; vér umgaungumst mann- eskjur, vér egum vini, margföld tæki- færi gétum vér fengid hjá þessum og vid þá, ad verda nockurs góds ollandi, og ad fá þá betrada; á medal margra ónytju orda, má opt eitt einasta lagfæríngar og frædandi ord færa ávöxt. Þegar vér minnumst þess, ad Gud og samvitskan er oss meira verdt enn allt annad; þeg- ar mañelskan er ordin oss ad vana-dygd, þá verdur oss ætíd audunnid ad studla til nockurs góds, hvad lítid sem þad vyrd- ast má. En byrja megum vér jafnan á því fyrst, ad ástunda vora egin betr- un; minn breiskleiki er mér ætíd nálæg- astur, og þegar mér er fyrst af alvöru ordid um þad ad gjöra, ad betra mína egin sálu, þá mun eg einnig gjöra mér alvarlegt ómak fyrir minna medbrædra heillum; já, þegar þvílíkt hugarfar er drottnandi ordid í sálu vorri, hvörsu mun þad þá færa oss, ad sjá hina lasta- fullu sækjast viljandi eptir egin ógjæfu

þeirra? hvílíku ómaki, bænum og yfirtölum munum vér þá ecki verja til ad frelsa þeirra sálu? Ad framgánga í heiminum med þessu rádvanda hugarfari, einsetjum vér oss nú á þessari qvöldstundu; eins og sannarleg Guds börn viljum vér lifa, hvörsu gálausir og andvaralausir sem þeir eru, er vér lifum á medal. Gud bidjum vér ad vardveita oss frá, ad géfa ødrum dæmi af oss til ógudlegs framferdis, heldur styrkja oss til ad ástunda, bædi med liferni voru og uppbyggilegum advörunum, ad efla rádvendni og Guds ótta ætíd meir og meir, og þó ad oss skyldi hér til vanta tækifæri, viljum vér þó med egin dæmi og framferdi voru, leitast vid ad verda sem flerstum til uppbyggíngar. Uppfyll þú, ó vor Jesú! þessa vora laungun! þú, mikli Manneskiari! erfidadir óþreytanlega til allra manna velferdar; allt gjördir þú til þess, ad draga til þín syndarana; þú úthelltir tárum út af Jerúsalems spillíngu. Séf þú oss nád til ad líkjast þér í þessu medaumkunarsama hjartalagi, og afneita eginn vilja og ávinníngi, fyrir vorra brædra heillum. Hversu guddómlegrar gledi má þad ecki

abla oss, þó vér gætum ecki áunnid nema einn syndara, sem vér fengjum til ydrunar leiddann! þó vér gætum ecki gjört gott nema einum vesælum þurfandi! Géf þú oss nád til ad smacka þessa himnesku gledi, sem auka mun á sídan vorrar eilífdar sælu.

## 9. Hugvekja.

Þackid þér Drottni, þvíad hann er gódur, og hans miskunsemi varir eilíflega.

Vid gjörvöll jördin sé full af Guds gædsku, þad má af eginreynslu sérhvörr af oss játa. Andinn, sem vér drögum, ljósid, sem lýsir oss, eldurinn, sem vermir oss, jardarinnar ávextir, sem fæda oss, vatnid, sem endurnærir oss, dýrin, sem þéna oss bædi til næringar og þarfa; allt þetta eru hlutir, sem vér játa megum, ad beri vitni um Guds miklu gædsku, sem vér njótum á hvörjum degi; og þó eckért væri annad ad finna á jördunni enn þad eina, sem vér vidþyrftum til naudsynlegasta viddurhalds lífi voru, mætti þó af því einu, mega ánægjanlega þeckja gædsku vors Guds; en þessirhans jardnesku velgjörn-

ingar eru ecki vid þetta eitt takmarkad-
ir, því hann hefir engu sídur alid önn
fyrir ánægju vorri, enn vorum naudsyn-
jum. Lífinu hefdum vér fengid vidhald-
id, þó vér hefdum ecki haft til næring-
ar nema einstaka og einfalda fædu, en
hvad margskyns mat og dryck hefir Gud
ecki géfid oss? hann upplýkur fyrir oss
öllum náttúrunnar fordaburum, til ad
gjöra oss glada og ánægda; ecki einúng-
is útbýr hann náttúruna ríkuglega og til
þægilegheita fyrir vorn smeck, heldur og
til ad gledja med öll vor skilníngar-vit.
Á sumardaginn géfur náttúran oss ynd-
æla sjón í grænum og blómlegum gras-
mörkum, og prýdilegustu blómstrum, er
ecki einúngis skémta auganu med marg-
földum litum, heldur útbreida þar hjá
sætann ylm; eyrad gledur fuglanna
saungur, sem fyllir loptid med inntak-
andi tónum; gjörvöll náttúran sýnist ad
képpast vid ad géfa oss forsorgun, end-
urnæríngar og lystisemdir; öll jördin er
full af Guds gædskn. Ó Drottinn!
fyrirgéf þú oss vorn breiskleika! hjartan-
lega óskum vér ad géta verduglega prís-
ad þig fyrir þína velgjörninga; en vort

málfæri er offstyrdt, til ad fá útmálad hvørsu nádugur, ástúdlegur og gódgjarn þú ert; því midur, sem vér finnum oss því vaxna, ad útmála og med ordum ad inna þér þá lofgjørd, sem þú átt af oss skylda, því umhyggjusamlegar viljum vér leita allra tækifæra til ad sýna þad í framferdi voru, ad þú ert sá, eptir hvørs vilja vér viljum haga oss í øllu: og med þeirri ástundun vogum vér ad vænta oss, med sérhvørjum degi, sem vér lifum, nýrra velgjørnínga af þinni Fødurhendi. Hjartkjæri Fadir! med glødu, þacklátu hjarta vidurkénnum vér þína óverdskuldudu nád; þessi vidurkénníng skal framvegis stjórna athøfnum vorum; vyrdstú ad styrkja hjá oss elskuna til þín, sem er grundvøllur gjørvallrar sinnisrósemi vorrar. Hvad fengi affakad vort óþacklæti, ef vér endurgyldum þinn kjærleika med ódygd eda óhlýdni? hvornig mættum vér vænta þess, ad þín miskun samt mundi áfram halda, ad audsýna oss svo mikid gott, ef vér létum hana ecki upphvetja oss til ástundunar ad þóknast og þjóna þér? Allt hvad vér dags daglega reynum og sjáum; þínir velgjørníngar, sem vér ørlátlega þyggjum;

náttúrunnar oss haggvæma niðurskipan og örlátu gáfur, allt þetta, með ótal fleiru, skuldbindur oss til að elska þig, Skaparann alls, fram yfir allt. Þín föðurlega stjórnan og ráðstafan á högum vorum, sannfærir oss um þinn náqvæma föðurkjærleika, sem vér að lokunum munum kannast við, að leiddi oss eptir sínu vísdóms ráði, og loksins til eilífrar æru.

## 10. Hugvekja.

Vor borgarréttur, er á himnum, hvaðan vér væntum Frelsarans Jesú Krists.

Yfrið margt er það, sem vekja má hjá oss minni þess, að vér séum útlendir og Pílagrímar hér á jörðu. Á hvörn hátt sem vér skoðum ásigkomulag vort, megum vér játa: að vér erum hér í heimi vegfarendur, sem egum hér engann blífanlegann samastað. Líkhami vor, þetta veika og hrörlega hreysi, sem hjá þeim sterkustu ekki fær staðist eða haldist við, nema um nockur ár, minnir oss á, að loksins, eptir þau fáu ár umliðin, hrynur þetta af elli, hafi ecki eitthvört tilfelli áður kollvarpað því. Þessi hrörlegi bú-

stadur sálar vorrar, er óneitanleg rök semd þess, að vér erum hér útlendíngar, og egum hér ecki blífanlegann samastað. Sálu vorri er þannig varið, að hún minnir oss á þennann sannleika; siálf verdur hún við eckert af þessu jardneska róleg til lengdar, eda ánægd og fridud þegar hún er óróleg; því öllu þessu jardneska er svo varið, að það er fallvalt og forgengilegt. Þessa heims æra og metord reynast oss opt fánýt og völlt; vellystir, hvörra vér njótum, jafnast ecki við leidindi þau og órósemi, sem þeim alloptast fylgir á eptir, og þó eykst hér á, að það veldur mikillar mædu, erfidis og órósemis, að ödlast þessi jardnesku gædi, og enn þá meiri að fá þeim haldið. Standi nú svo á högum vorum hér á jördinni, hvörsu mjög breyttum vér þá gégn vorri ákvördun, ef vér lifdum eins og þessi heimur vera ætti vor ævarandi samastadur? að vera þar um sannfærdur, að þetta líf er Pílagrímsstand, og samt að képpast framar öllu eptir vellyst og munadi: samt að gleyma vorum eilífa ákvördunar-stað; samt að géfa oss alla við þessa lífs gædum, stríðir allt hvað á móti ödru. Fyrst vér nú þeckjum oss að

vera hér útlendínga og Pílagríma, ber oss ad temja oss allt annad hugarfar; þ. oss sé leyfilegt, med réttu, ad eignast, eda ega sérhvør jardnesk gædi, ber oss ad ega þau, eins og vér ættum þau ecki; svo laust á vort hjarta vid þau ad vera; vér megum brúka tímanleg gædi, án þess ad láta þau táldraga oss til heimsins lasta, hvørjir aldrei mega flecka þann kristna, sem væntir sér sællrar vistarveru á himnum. Því lengur sem vér lifum, því fleirri lífsins dagreisur, sem sá alvaldi lífsins Herra leyfir oss ad enda, því hugfastari sé oss þánki sá: ad um skamt sé vort æfiskeid runnid, og því framar egum vér ad láta oss í léttu rúmi liggja allt stundlegt, sem oss mætir á vorri vegferd í lífinu. Æ! vyrdstú eilífi Fadir og Gud! ad vekja og vidhalda hjá oss þessari íhugun! af skilníngarvitaña tillockunum og vellystínganna fánýtu gledi, gleymum vér allt of opt, ad vér erum hér Pílagrímar, nema þinn Andi upphvetji oss til ad gjæta þessa, og til ad láta þá adgjætslu gjøra oss varhygdarsama í voru gjørvøllu framferdi. Leid þú því þánka vora frá þessu útlegdarlandi, gégnum hvørt leid vor nú liggur,

til þess oss fyrirbúna lands, sem vér keppumst ad ná, og láttú íhugun þeirrar dýrdar, sem þú unntir oss ad þeckja þar oss ætlada, gjöra oss óþreytanlega, hvada ørdugleiki, sem oss mæta kann hér, á leidinni þángad; þar munum vér á sídan, eptir afstadna mædu vorrar Pílagríms ferdar, njóta endurnærandi rósemdar og hvíldar, og ríkuglegra umbuna fyrir alla mædu, erfidi og þjáníngar vors lífs, sem vér farsællega yfirunnum.

## II. Hugvekja.

*Þegar eg hefi þig ad eins, þá hyrdi eg hverki um himin né jørd; þó líf mitt og sál vanmegnist þá ertú þó, Drottinn! mitt hjartans traust og hlutskipti.*

Ef ad vér findum oss þannig sinnada, og þegar þetta trúnadar-traust væri vel grundvallad í sálu vorri, hvørsu rólegir mættum vér þá ecki leggjast til hvíldar á hvørju qvøldi? hvørsu ánægdir med sérhvør tilfelli, sem ad høndum bera, og óqvídnari fyrir því, sem óvíss komandi tíd lætur oss mæta? En, hvørsu opt vekst ecki vantrú og óánægja hjá oss, yfir Guds vegleidslu, þegar oss finnst

hún ecki samsvara vorum óskum? hvørsu opt moglum vér ecki í voru hjarta gégn Gudi, sem leidir oss þó med svo mikl- um víédómi og gædsku? Máské, ef vér ýtarlega ransökudum vort egid hjarta á þessu qvøldi, ad vér margir findum þad fullt af vantrú og óánægju; máské yfir því óánægt, ad vér egum vid einhvørn bágann kost ad búa, ellegar áhyggjufullt vegna þess, ad vér ecki hreppt fáum eitt- hvad þad, er vér álítum sem lucku og ó- missandi fyrir rósemi vora. En, minnst þú þess samt, kristni madur! sem finn- ur til þvílíkrar óánægju og mödleysu þinnar sálar, ad þú syndgar med mogli þínu og vantrú á móti Gudi; hann er og verdur vís og nádugur Gud, hvørsu mjøg sem þú moglar; máské þú stynja megir undir einhvørju mótlæti, og sért þess vegna óánægdur? en, yfirvega þú þitt umlidna líf, og þá mørgu velgjørn- ínga, er Gud hefir látid þér í tje; hvørsu margar þjáníngar þú ádur hefir, fyrir hans krapt, fengid afstadid, margar freistíngar sigrad; hvørsu margra gledi- daga hann hefir unnt þér, já, lángtum fleiri enn þá fáu sorgardaga í øllu þínu lífi; og því skyldir þú þá ecki þolinmód-

lega taka skammvíäri mædu? Sérhvørt áſigkomulag lifſins, hefir ſér ſamfara nockurn ørduglеika og óróſemi; met þú þig ſælann, ad þú ert einn medal annara í verøldinni, ſem forſjón Guds ber umhyggiu fyrir. Þér ber og ad vídfrægja Guds dýrd, og vidurkénna: ad ſérhvørt tilfelli ſem þér mætir, lýſir hans hátign, forſjón og gædſku. Gjør þú því ecki ad engu hans víſa tilgáng vid þig med óþarfa umqvørtun, heldur dýrkadú hann ſem ber, med ſtadføſtu trúnadartrauſti til hans forſjónar; géfdú þig fús honum á vald til allra umráda; adgættú, hvørninn þér mundi vegna ef Gud ecki elur fyrir þér ønn; hvadan mundir þú þá ødlaſt fædi og forſorgun á hvørjum degi? hvørr mundi vardveita þig fyrir øllum ſlisførum, fyrir øllum háſkaſemdum, ſem umkríngja þig? þackadú Gudi og gled þig vid þad, ad þú reynir hans gædſku, ſem elſkuriks Føðurs, er fædir þig og klædir, og þér til góds ſtjórnar øllum þínum lífskjørum. Í ſtødugu trúnadar-trauſti til Guds, máttú því á qvøldi þeſſu til hvíldar gánga, og vakna rólegur til ad framhalda þínu lífsſkeidi undir hans varatekt. Satt er

það, að ecki veitst þú hvað á næsta degi muni þér mæta, en prísa þú þig þeim mun sælli, að þú veitst það ecki; láttú þér nægja, að vís og nærgætinn Faðir þinn á himnum, best veit hvað þér hagar, og þessvegna kanntú með vissu hins besta að vænta frá hans hendi; og þó að þú ættir nú að búast við einhvorju mótlæti, því skyldi það gánga þér til hjarta? gættú þess, að Guð, sem sendir þér það, sendir þér einnig styrk og huggun þegar þér áliggur; en, því væntir og óskar þú þér stöðugrar luckn hér, hvar þú veitst allt að vera óstöðugt í þessari veröldu, og mátt þar hjá vita, að þú ert ecki fær um hér að bera stöðuga luckn? Vertú því með rósömu gédi hér, það litla, sem eptir er æfinnar, uns þú verður fluttur til annars og betra lífs; þar munu allar skynsamar óskir þínar uppfyllast, þín gledi stöðug og ómeingnð verða, og þar þín heill eilíf og fullkomin.

## 12. Hugvekja.

Vér skulum brúka svo heiminn, að vér ecki vanbrúkum hann.

Sérhvörjum, sem annt er um að lifa eins og réttkristnum ber, er ýfrið

naudsynlegt, daglega ad gæta þess: til hvers Gud hefir géfid honum lífid, og læra af þeirri adgætslu, ad setja óskum sínum og laungun eptir því jardneska, vifs takmörk, en þarámót fela sig og öll sín efni á vald og stjórnun Guds alvísu forsjónar. Hugleidtú því, madur! sem kristinn villt heita: ad þó ad Gud unti þér sem lengstra lífdaga, áttú samt enn framar ad lengja þá, med brúkun þeirra til góds, og læra, ad minnsta kosti, ad lifa, ádur enn þú deyr. Vor sanna lucka er ecki komin undir því, ad vér lifum lengi, heldur hinu, hvornum vér lifum. Láttú því aldrei þann þánka villa þig: ad metord, ættgöfgi eda audlegd fái þér varanlega heill eda ánægju veitt; því sú ímindada heill hvílir á fallvöltum og fánýtum grundvelli, og er bygd á hjegómlegum og forgengilegum hlutum en ecki dygd. Sanna heill má finna í hvörju helzt standi sem vér lifum, svo ad sérhvörr megi ánægdur lifa, hvörr uppá sinn máta; og þó leita fáir luckn sinnar med réttri adferd, þó allir óski sér ad verda luckusælir. Varastú því nágvæmlega þeirra bresti, sem sífellt óska sér ofmikils eda oflitils; væntú þér aldrei

ofmikils, og odlist þú ecki það litla, sem þú væntir þér, áttú fyrir það aldrei að orvðlnast. Varastú ydjuleysi og undandrátt þess, sem skylda þín býdur þér strax að framqvæma; géfdú náqvæmar gætur að ollum þínum fyritækium, egi lifið ecki að verda þér eins og draumur, hverfa þér og líða burt í fánýtum, ímindudum lystisemdum. Ástunda þú því í tíma, að læra að lifa, og á medan þér lidur ollu vel, að vera ánægdur, þó að þig eitthvað bresti; neita þú því á stundum jafnvel leyfilegra lystisemda. Sértú reidigjarn, þá varast þú að láta skaplost þenna fá yfirhond; því reidi kañ á einu augnabliki að olla þér meiri skada, enn þú fær þér bættann á heilu ári, eda máské alla æfi; hún svyptir þig þar hiá sinnisrósemi, því gledi, ró og ánægja fær ecki búið nema í hógværu og fridsomu hjarta. Vor gledi hér á jordu er aldrei nema skamvinn og blondud sorg; forgéfins er því að leita hér stodugrar farsældar. Láttú þér lynda, þó ecki hreppir þú allt það, er þú metur sem lucku, og þess vegna æskir þér, sértú að eins ecki ólánsmadur, en verdir þú það, ellegar kallir þig svo, þegar þér ber mót-

læti ad höndum, þá adgættú, hverjar þínar þjáníngar eru, og ber saman þad sem þú lídur, vid þad, sem margir adrir medbrædur þínir mega bágt umbera; álíkt og bíflugur sjúga hunáng af blómstrum, skalt þú leitast vid ad færa þér allt í nyt; jafnvel þad lítilfjørlegasta má þannig verda þér ad gagni. Lærdú ad höndla þá luckn, sem fáir vita ad meta rétt, og særri því æfa rétt, ad gjøra ødrum gott, med náqvæmri yfirvegun og skynsemi; képpstú vid ad líkjast í því Gudi, og láttú þér annt um ad gjøra medbrædur þína farsæla, ad því leiti þér er møgulegt. Minnstú þess: ad tíminn lídur skjótt, og því sífellt þeirra heilræda: ad endurkaupa tídina, og brúka hana vel, án forsómunar; þó þá verdi líf þitt stutt, verdur þad samt loflegt, ef þú vid þitt endadægur og á daudastundinni fær med fullri sannfæríngu sagt: eg hefir lifad mínum Gudi og medbrædrum, og á sérhverjum degi míns umlidna lífs stundad ad gjøra nockud gott, og þar med viljad hafa í minni mína áqvørdun.

## 13. Hugvekja.

Lítid upp, og upphefjid ydar høfud, af því ydar endurlausn tekur ad nálægjast. (Lúk. 21.)

Einhvør vor sérlegasta skylda á medan vér lifum, er, ad læra ad þeckja þann himin, í hvørjum vér óskum oss á sídan ad ná vistarveru; en þad er líka vor skylda, ad læra ad þeckja heiminn, sem vér lifum í, og þær háskasemdir, sem oss í heiminum umkríngja. Þecking þessi á himninum og heiminum, er fortakslaust ómissanleg til vorra heilla; þvíef vér ecki þeckjum himininn, hvørnig á oss þá til hans ad lánga? ef vér þeckjum ecki heiminn, hvørnig egum vér þá, ad fá umflúid þær háskasemdir, sem óttast er, ad gjøri oss hvørt augnablik ófarsæla? Himininn og heiminn, og hvørs ásigkomulag fyrir sig, egum vér því, í voru gjørvøllu lífi, sífellt ad hafa fyrir augum; vér megum nota oss gædi þessa heims, án þess ad gleyma himninum; en fásinna og fáfrædi vort hindra oss ósjaldan þar frá; vér þeckjum hvørki himininn né heiminn svo vel, sem oss ber; vér festum vor hjørtu svo mjøg vid þetta forgengilega jardneska, sem vér

sjáum og oss gledur, ad vér gleymum ad þenkja til himinsins, eda vekja hjá oss laungun eptir honum og því eptirkomandi, sem oss er fjarlægara og vér sjáum ecki. Látum oss því einusinni yfirvega þá jörd, sem vér byggjum, og þann himin, í hvorn vér óskum oss ad lokunum inngaungu; samanberum þad ílla, sem vér þeckjum í þessari veröldu, vid þá sælu, sem oss er opinberad ad himininn hafi oss um eilífd tilreidda; víst mættum vér, vid þann samjöfnud, sannfærast um þad, ad þessi heimur er oss sem eckért, en himininn sem allt, og því kappsamari verda ad taka framförum í þeim dygdum hér á jördunni, sem gjöra oss á sídan hæfilega til himinsins vistarveru. Hvörsu ástundunarsamir mættum vér ecki verda í æfingu sannra kjærleiks verka, ef vér settum oss fyrir sjónir þann kjærleika, sem þeir sælu útvöldu á sídan bera munu hvörr til annars? hvörsu fúsir til ad stunda af fremstu kroptum, ad fullnægja Guds vilja, ef vér íhugum hvernig himinsins útvöldu innbyggjarar meta þad farsæld, ad fullnægja Guds bodum? Hvörsu umhyggjusamlega mættum vér ecki varast alla tví-

drægni og fiandskap, ef vér minnumst fridar og einingar þeirrar, sem drottnar á medal þeirra fullkomnari himin-búa! Hversu fúsir mundum vér ecki taka sérhvørri lífsins mædu, mótlæti og ørdugleika, ef vér opt hugsudum til þeirra umbuna, sem oss eru vís á himnum, þegar vér hér hofum gódu strídi barist, vardveitt trú og góda samvitsku? Vér viljum því á þessum qvøldtíma, snúa gjørvøllum þaunkum vorum til þeirra himnesku heimkynna, hvørra íbúendur vér á sídan verda munum, og venja oss til ad losa vort hjarta vid heimsins forgengilega hégóma, en æ betur og betur leitast vid, ad ødlast forsmeck himneskrar sælu, sem géfast má hér á jørdu, og sem einn má hér gjøra oss lífid yndælt. Ydduglega skulum vér samanbera himininn vid heiminn, þessa lífs fallvøltu og fánýtu gledi, vid eilífdarinnar endalausa og sanna føgnud, og þá mun þessi samjøfnun vissulega leida oss úr øllum snøgga um þad, hvørt vér egum heldur og framar ad meta.

14. Hug-

# 14. Hugvekja.

Öll jördin er full af Guds gædsku.

Gjörvöll veröldin má heita sem skodunnar-plátz, fullt ótal votta um Guds gædsku og gódgyrni. Engin skepnd sképna er útilokud frá hlutdeild í hans forsjón, en enginn stadur á jördunni til, sem ecki vitni um hans nád; allstadar finnum vér Gud, eins í óbygdum eydimörkum og blómgudum grasmörkum; allstadar bædi á himni og á jördu, megum vér þeckja merki hans kiærleika, og ad í þessari gódgyrni Guds, sem fyllir alla jördina, tökum vér mañeskiur mesta hlutdeild. Þegar eg med þessum hugleidíngum skoda náttúruna, hvörsu mikils má eg þá ecki meta siálfann mig, sem Skaparinn hefir varid svo miklu meiru til? ánægja og þacklæti vid þenna örláta Gjafara allra godra hluta, gagntekur þá alla sálu mína. Allt hvad skapad er, og sérhvörr partur þess, keñir oss ad þeckja vorn Skapara, og uppbvetur til ad dýrka hann verduglega. Til þess lifum vér, og til þess er öll jördin full af oteljanlegum fjölda skapadra sképna, ad vér af þeirra skopun og for-

sorgun, lærum ad þeckja og prísa Skaparann og leita hans dýrdar; vér lærum af þeirri skodun ad þeckja hans takmarkalausu fullkomlegleika, og finnum þarvid tilefni nóg, til ad dádst ad þeim, og til ad vídfrægja hans dýrd. Eckert lífsins augnablik lídur hjá, sem ecki hvetji oss til þess; því allt vort líf er sem samanhleckjud kédja af velgjørdum Guds; án hans nádarverkana fengjum vér ecki lifad heilir heilsu eda ánægdir eina stund. Því ber, ad þánkar vorir, hjarta og túnga sén æ full med hans lofgjørd; en vér megum blygdast, ad vér gætum svo litid þessarar skyldu! vér medtøkum þá dýrmætustu velgjørnínga, af vors Skapara mildu Fødurhendi, án þess ad minnast hans; vér heyrum gjørvallann náttúrunnar loffaung; vér sjáum ánægju alls þess, sem skapad er; vér sjáum jardarinnar blómgun, en rennum ecki þánkanum til hans, sem gjordi allt þetta svo dásamlega. O! hvorsu megum vér ecki blygdast, ad ecki ein einasta skøpud sképna Guds þegir, heldur vegsamar hvør og ein sinn Skapara; himnarnir framtelja hans dýrd, og sú útbreidda

himin • festíng verkin hans handa; einn dagurinn segir þad ødrum, og hvør nóttin kunngjørir þad annari, en vér þegjum og látum oss eckért finnast til alls þessa. Æ! mín sála! láttú þig aldrei finna í vanþacklátra og tilfinníngarlausra tølu; sýng þú hans lofgjørd sem svo er dýrdlegur í øllum sínum verkum. Já, eg vil þitt lof vídfrægja, minn Konúngur! og æfinlega prísa þitt nafn! þú, Drottinn! ert mikill og loflegur, óútmálanlegur er þinn mikilleiki, eg vil vídfrægja þín dásemdarverk, prísa vil eg þitt nafn og mikla þína stóru gædsku! þú hylur himininn med skýum, og géfur regn á jørdina; þú gjørdir túnglid, til ad skipta eptir því árstídum; þú gjørdir myrkrid, svo ad nótt verdi. O! hvørsu mørg og mikil eru þín verk, Drottinn! øllu hefir þú vísdómslega nidurradad; øll jørdin er full af þinni gædsku; allar lifandi sképnur vona uppá þig, ad þu géfir þeim þeirra fædu í hæfilegañ tíma; þegar þú géfur þeim, samansafna þær; þegar þú upplýkur þinni hendi, verda þær mettadar med gædum. Drottinn! þín dýrd varir eilíflega! þú hefir velþóckuun á verkum þinna handa; sýngja vil eg

Drottni lof á medan eg lifi, og þacka mínum Gudi á medan eg er til. Til hvílíkrar lofgjørdar vyrdsiú, ó vor Gud! ad láta þína sífeldu velgjørnínga og nád upphvetja oss, fyrst hér í tímanum, og sídan í eilífdinni!

## 15. Hugvekja.

Látum oss eckert þýngja; letjumst ecki á oss fyrisettu vedhlaupi.

Hanninn er øllum jardneskum hlutum varid, ad gott og íllt, sem samblandast hvørt ødru í heimi þessum, er nærsta fallvalt. Af margfaldri reynslu høfum vér lært, ad engrar fullkominnar gæfu er ad óska eda vænta hér á jørdu; því hvørnig fær heimur þessi gjørt oss farsæla, hvar ánægja og óánægja eru jafnast samblandadar, og hvar vér, á hvørri stundu, erum undirorpnir ýmist einhvørjum mædu-tilfellum eda ránglæti vondra manna? En svo ótilhlýdilegt sem þessa vegna er, ad láta sér leidast lífid, og af ørvýlnun óska sér daudans, er hitt engu sídur fávíslegt, ad leita sér hér í heimi fullkominna heilla, og festa

hjarta sitt einúngis vid þetta stundlega; því engin er fástuna meiri, enn ad leita þess hér í veröldu, sem ecki er til í henni. Vér mundum draga sjálfa oss á tálar, ef vér ad morgni dags vildum gjöra oss vissa von um, ad lifa ánægdir daginn út, og njóta ómeingadrar gledi og sinnis-rósemis. Á sérhvörjum degi megum vér búast vid ad reyna óstödugleika allra jardneskra hluta, og þess vegna útbúa oss fyrifram, med þolgædi og hugarmod, honum á móti. En þegar vér einsetjum oss í öllu ad láta oss lynda medferd og stjórnun Guds, verdum vér ecki módlausir, þó óþægileg tilfelli beri oss ad höndum, sem raska megi um hríd ánægju vorri. Fyrifram skulum vér því setja oss fyrir sjónir, hvörsu audveldlega ské mætti, ad vér sviptumst heill vorri og sinnis-ró; tökum til dæmis: Eg er nú í qvöld heill heilsu, en ádur en nóttin er umlidin, kann máské dandlegur sjúkdómur ad boda mér mína burtför. Nú á eg trúann vin ad, en brádum má hann kannské verda mér otryggur; eg leggst nú gladur til hvíldar, en máské eg rísi hryggur úr reckju; eg lífi í qvöld, en hvörr veit hvad fjærri er æsi endi? Þann-

inn er viturlega þenkt, og skynsamlegt ad haga sér sambodid þessu. Vér egum ad nóta oss lífsins saklausu lystisemdir, eins og vér nytum þeirra ecki; vér egum ad gledja oss, eins og vér ecki gledjumst; allra hluta óstødugleiki á ad gjøra oss forsjála og adgætna, og heimurinn, med sínum forgengilegleika, á ad vera oss skóli, í hverjum vér lærum vísdóm og dygd. Dygd vor og trúnadar-traust á Gudi, mun géfa oss hugarmód og krapta, mun létta undir vora mædu og erfidi, en sefa vorar tilhnegíngar. Þanninn fáum vér vidhaldid stødugri sinnis-ró, jafnvel í þeim óþægustu tilfellum, sem ad høndum kunna bera. Hughraustir gaungum vér þá út í sérhvørt erfidi og mædu, sem sá leggur á oss, er gaf oss lífid, og sem hagadi ollu þanninn, ad þess mæda skyldi þess gledi ávallt samfara verda. Med þessu hugarfari megum vér vera þess fullvissir, ad Guds ótti gjørir oss audunnid ad æfa jafnvel þær ørdugustu skyldur vorar, á medan vér lifum, þared vér ætíd megum gledja oss vid þá umbun, sem oss er fyrir þad á sídan fyrirheitin. Allt þetta jardneska og þess forgengilegleiki, skal þanninn

styrkja oss til ad letjast ecki vorri skyldurækt, heldur því kappsamlegar ad skunda vort æfi-skeid til óforgengilegra heilla, sem vér egum í vændum á himnum.

## 16. Hugvekja.

Ósk ens réttláta hlýtur ad uppfyllast

Allra manna sambuga ósk er sú: ad ná farsæld, gledi og ánægju; allir vilja þeir sælir verda; hvörsu ólíkar, sem manna tilhnegíngar almennast eru, kémur þó øllum saman í því, ad allir óska sér af hjarta, ad komast hjá allsháttar ógæfu, og þegar vér sameinum allar vorar óskir, innibindast þær allar í því: ad vér bidjum Gud um heill og hamíngju; en eins er ad gæta: veljum vér ætíd þau medol, sem í raun réttri eru nægileg til ad fylla þessar vorar óskir? Ad sonnu erum vér máské ecki oldúngis afskiptalausir um þad, sem horfir oss til heilla og velgengnis; vér gjorum oss ómak fyrir ad eignast trúlynda vini; vér sækjum eptir audlegd; vér ølum onn fyrir heilbrygdi vorri og vellídun; vér leitum oss máské framfara í lærdómi; en vér fáum samt ecki, med øllu voru ómaki, nád

þeirri heill, sem vér keppumst eptir; með hvörjum degi óskum vér oss enn varanlegri heilla, stöðugri gleði og fullkomnari rósemis, enn vorir vinir, vor auðlegð, heilsa og lærdómur fengu oss veitt; vér komumst því að raun um æ betur og betur, að þvílíkt aldrei fær veitt oss þá farsæld, sem vorn óvandlega anda svo mjög eptirlángar, og þó hefir þú, gæðskuríki Guð! ætlað til þess, að vér skyldum farsælir verða; vyrðstú því, þú Höfundur allrar farsældar! að vísa oss á þann veg, sem leiðir til sannra heilla, og styrkja oss til að gánga hann áfram stöðuglega. Lengi höfum vér híngað til af vonum villst, leitað vorra heilla, en ecki fundið þær. Sannfær þú oss því um, að oss aldrei fær vel vegnað, nema vér hlýðum þér, nema vér þín vegna hötum hið vonda, og leitum gleði vorrar í því eina, að ástunda þinn vilja, og ávinna oss ætíð, með kostgæfinni dygða æfíngu, þína náð og velþóknun. Á sérhvörjum degi komumst vér að raun um, að allir hlutir í heiminum eru eintómur hégómi, og þó erum vér svo fávísir, að láta oss blinda af þeirra glampa og skini. Vyrðst þú, o vor Guð! að kénna oss, að sú sann-

is·ró, sem æ er samfara sönnum Guds ótta, er vor eina stødnga heill hér í heimi, sem eckert jardneskt fær oss géfid, né þess missir svipt oss; aldrei er oss óhult, ad hneixlanleg dæmi og freistíngar mæti oss ecki, sem leida kynnu oss afvega á glötunarinnar breida veg, en láttú þína forsjónarhønd þá halda oss stødugum á þínum sanna og dygdanna vegi; þegar oss verdur villnhætt, géf oss þá nád til ad þeckja, ad þó sá vegur, sem leidir til himinsins, vyrdist oss í ønd verdu ørdugur, og finnist sem þyrnum strádur, verdi hann þó smámsaman audfarnari, ánægjusamari, og ad lyktum sáluhjálplegur; á honum munum vér allt þad finna, sem efla má heill vora; og þó oss bresta kynni þessa heims audlegd, eda ønnur jardnesk gædi og lystisemdir, munum vér þó ødlast þessa jafnvægi og miklu dýrmætara í ødrum betri. Vor fasti ásetníngur veri því ad gánga, ó vor Gud! hédanaf á þínum vegum; æ! láttú þína adstod og styrk aldrei frá oss víkja, því annars er oss hætt vid falli og villu; hjálpadu oss til ad halda áfram vedhlaupi voru undir þinni vegleidslu, og loksins ná því fyrisetta takmarki, til hvørs vér egum

ad képpast, þeirri oss af þér fyrirheitnu eilífu sáluhjálp.

## 17. Hugvekja.

Verid ætíd vakandi og bidjid. (Lúk. 21)

Þegar vér voknum ad morgni dags, þegar vér leggjum oss til svefns ad qvöldi, á vor fyrsti og seinasti þánki ad íhuga, hvörnig vér fáum haldid sálu vorri sívakandi, til ad varast þann hættulega andvaraleysis svefn, sem orsakar ófarir margra. Þad er víst hid háskalegasta ásigkomulag, sem nockur fær ratad í, ad framgánga alltaf sem hálfsofandi, án þess ad láta sér í hug hvarfla, ad endalaus ógæfa kunni audveldlega hann ad yfirfalla öldúngis óvidbúinn, þvíad á sérhvörju augnabliki vors lífs egum og megum vér vænta Jesú tilkomu eptir hans egin fyrisögn; og þó þad ecki væri, erum vér engann tíma óhultir fyrir daudans adkalli og þá fær eckért ástand, hvörsu álitlegt sem þad vyrdist, frelsad oss frá því ottalega, sem af þessari umbreytíngu leida má, fyrir oss, ef vér ecki höfum vid henni verduglega búist fyrifram; hvörsu naudsynlegt er þad.

þvi ecki fyrir oss, ad vera ætíd vakandi, ætíd vidbúnir undir þann sídasta dag, ætíd til reidu ad skipta um veru; hér á jördu fyrir himininn, þó ad mædu, umhyggju og árvekni kosti ad fá þessu hugarfari stödugu vidhaldid. Forsóma þú þess vegna aldrei, kristinn madur! ad sérhvörs dags morgni ad einsetja þér, ad brúka þann dag med árvekni og athygli sérhvörrar skyldu þinnar, og minstu, hvörsu margbreytt hún er, og hvörsu margt þér ber í þessu tilliti ad gaumgæfa í lífi þínu. Þú, sem tilbidur þann eina og sanna Gud, átt hann ad elska yfir alla hluti fram, og hafa hann þér æ fyrir augum, sem vitni til allra athafna þinna; sem þann, er aldrei víkur frá þér, og því láta þér undir eins í hug koma: ad þessi Gud er þinn ædsti dómari; því ber þér jafnan ad vera gætinn í ordum, hreinn í þankum og rádvandur í framferdi þínu; þér ber því ad varast allar óleyfilegar lystisemdir, og halda þínum tilhneigingum í taumi; aldrei má þitt hjarta festast svo vid þessa lífs gædi, ad þú vanbrúkir þau til ad fullnægja med óleyfilegum girndum; þvert á mót áttu til þess ad venja þig, ef vidþyrfti, ad

þú viljugur géfir honum aptur allt hvad þú átt, sem þad veitti þér fyrri óverdskuldad; því sídur máttú óánægdur mogla, þó hann svipti þig því, sem hañ ádur gaf. Í stuttu máli ad segja: aldrei má þér sú alvarlega ástundun úr miñi falla, ad lifa ætid þannig, ad þú megir vænta þér sáluhjálplegs dauda. Vid þessa ástundun máttú aldrei sloku slá, aldrei í henni letjast, eda láta nockra veraldar muni blinda þig svo eda svæfa, ad þú gleymir þinni eilífu sáluhjálp. Þared þín daudastund er þér óviss, má þad ské ad hana adberi þegar þig minnst varir, og þú ert áhyggjulaus; því má þín árvekni aldrei dofna til þinna æfiloka. Ecki nema þeir, sem þángad til vardveittu trúna og góda samvitsku, ega von á úr býtum ad bera réttlætisins kórónu. Vaktú þess vegna, þared þú ecki veitst þá stund, nær Herrann muni koma, og kalla þig fram fyrir sig, sem Dómara, til ad standa sér reikníng fyrir þitt líf, og giörvallar lífs athafnir. En þú, vor Gud! sem hefir talid vora daga, sem allir eru í þinni hendi, þú, sem þeckir vorn veikleika, vanmátt og óstodugleika, vyrdst þú ad halda oss jafnan vakandi!

láttú aldrei þessa heims blindandi glaum svæfa oss svo, ad vér gleymum vorri eilífu áqvordun; géfdú oss krapta til ad standa stödugum í vorum góda ásetníngi, svo ad vér verdugir finnast mættum ad lokunum þeirra verdlauna, sem trúlyndum þjónum fyrirheitin eru.

## 18. Hugvekja.

Eg vona á þig, Drottinn! og segi: þú ert minn Gud! (Psálm. 31.)

Í þessu óstöduga, umbreytíngasama lífi, fær oss eckért gjört rólegri enn fullvissa sú: ad allt hvad oss her ad höndum, öll vor tilfelli standi í hans hendi, sem í sínu valdi hefir bædi öll mannleg kjör og allra manna hjörtu; hañ þeckir grant og sjer allar vorar þarfir, hañ veit og medölin, sem ætíd hjálpa kuña; alkunnugt er honum sérhvad þad, sem vidhalda má voru lífi, eins og hitt, sem því má granda, og eckért fær hueckt hans mætti, mótstadid né hindrad hann frá ad hjálpa oss; hann þarf ecki nema ad bjóda, svo ad allir hlutir fái sína tilveru og gáng, og vilji hans einn er fullnógur til þess, ad þeir verdi ecki ad engu.

J trú til hans almættis megum vér í sérhvorjum lifsins kríngumstædum vænta oss heilla og sigur úr bþtum ad bera, hvor helzt mótlætis reynsla, sem oss ad höndum ber; þó má þad vera oss gledi- og huggunarsamlegast, ad þessi vor Drottinn, á hvorn vér treystum, er óendanlega gódur, og ad hann elskar oss enn innilegar, enn nockurr fadir fær elskad sitt einka barn; þo ad hann sjálfur engin not hafi af heill vorri, hefir hann samt laungun eptir vorri velferd, og þessi fullvissa er oss nóg sannfæring um, ad hann muni oss aldrei yfirgéfa. En þegar vér gætum þess, ad hann hefir géfid oss dýrmætustu fyrirheit um, ad veita þeim nád, sem med sönnu trúnadartrausti snúa sér til hans, þá er vissulega eckért, sem vér framar höfum ad æskja oss. Otal réttkristinna dæmi, sem hughreystir voru í eymdum sínum og frelsadir úr neydinni, er oss ánægjanlegt vitni þess, ad fyrirheit Guds standa stödugri enn himin og jörd, því þetta er þad huggunarríkasta, ad kjærleiki Guds og trúfesti er engum umbreytíngum undirorpid. Máttugur er vor Gud ad halda sérhvad, sem hann oss heitid hefir; ætíd er hann fús til ad

veita oss allt gott, ef vér ecki hindrum þad sjálfir. Allt verdur samfara til ad sannfæra oss um, ad í því sé vor heill fólgin, ad Gud Jakobs er vor hjálp, þegar vér setjum á hann vora von, sem skapad hefir himin og jörd. Vér upplyptum því vorum þanukum á þessari stundu til þín, alvaldi himins og jardar Herra! frá þér væntum vér hjálpar og adstodar. Þared vér vitum ecki fyrir vor luckukjör á næsta degi, fánm vér eckert betur úrrádid í vorri óvissu, enn ad fela þér á vald öll vor tilfelli og allt þad oss mætir, hvort þad er blídt eda strídt; þad vitum vér, ad aldrei er oss vid óförum hætt medan þú ert oss nádugur; en vér erum þessa fullvissir medan vér gaungum á þínum vegum, og med öruggu trúnadartrausti setjum alla vora von á þig. Hvorutveggja viljum vér gjöra med rádvöndu hjarta, og jafnan hafa þig oss fyrir augum; vyrdstú því ad uppfylla á oss þín dýrmætu fyrirheit; láttú oss reyna þá adstod þína, hvorrar vér vidþurfum og leitum. Heyr þú nádarsamlega sérhvorrar trúadrar sálar andvarp, sem uppstígur fyrir þinn trón á þessari qvöldstundu; lát og sérhvörn í naudum

staddann, finna hjá þér náð og frelsi; heyr þú bænir þeirra yfirgéfnu, og vertú allra þinna mannsképna miskunari, eins og þú ert athvarf og Fadir allra þjóða. O Gud! vér fulltreystum þér! vertú oss ecki fjarlægar med þína hjálp; vér viljum þínu nafni lof syngja, þú hærsti, sem hjálpar svo gjarnan.

## 19. Hugvekja.

Þú varst minn Gud frá módurlífi.

Med engu fáum vér betur styrkt og grundvallad vort trúnadar-traust til Guds, sem oss er svo harla naudsynlegt í þessu lífi, enn med því: opt og yduglega med eptirþánka ad endurminnast, hvörsu Guds fødurlega forsjón hefir leidt oss dásamlega í gégnum vort lidna líf, og þau margvíslegu tilfelli, sem oss hafa í því ad høndum borid; vér fáum af því sjed, ad vér fyrir sérhvört lífs vors augnablik, egum Gudi lofgjerd og þackläti ad gjalda. Einber gædska Guds skóp oss af engu og gaf oss lífid, fyrir hvad oss ber ad þjóna honum med því gjørvøllu. Þegar vér rekja viljum lífs vors feril og ástand frá øndverdu, dag

frá degi, ár eptir ár, frameptir fyrsta barndóms aldrinum, á hvorsu' morgum roksemdum guddómlegrar Fødurgædsku megum vér þá ecki þreifa? hvorninn mundum vér, á vorum æskuárum, þegar líf vort héck á veikum þrædi, hafa fengid klaklaust komist í gégnum þau margvíslegu hættu tilfelli, sem á þeim aldri hafa ollad morgum bana, hefdi ecki Guds fodurlega forsjón vakad yfir oss? hvornig hefdu vorir veiku, þó svo meistaralega bygdu og samantengdu limir vaxa kunnad, dafna og þroskast dags daglega, á uppvaxtar árunum, hefdi ecki sama almætti Guds myndad úr vorum barndómi menn, sem myndadi oss þegar í módurqvidi? hvorsu margar hættulegar sóttir hefdu ecki mátt svipta oss lífi, ef hond Drottins hefdi ecki vidhaldid því? margt eitt voveiflegt hættu tilfelli mátti fyrir laungu hafa lagt oss í grofina, hefdi ecki verndar armleggur vors trúfasta vaktara verid sífellt útréttur oss til frelsis; já, vissulega mætti fyrir laungu útgjort vera um vora velferd; vissulega hefdum vér þegar burtryckter verid í vorum syndum, ef vor mikli Arnadarmadur, sem sætt hefir oss vid sinn himneska Fodur, hefdi

ecki sífellt bedid fyrir oss. Hans vegna hefir Þolinmædi Guds ecki einúngis hlift oss allt híngad til, þó vér svo opt høfum af oss brotid hans nád, heldur egum vér honum, vornm dýrmæta Endurlausnara ad þacka svo margfalda nád Guds og velgjørnínga, sem vér þegid høfum allt híngad til; hans vegna erum vér frelsadir frá mørgum lífsins sorgum; hans vegna eru vor tár svo opt afþerrud; hans vegna erum vér svo opt endurhresstir med dýrmætustu huggunum í vorum dymmu sorgardøgum, og hvad eñ meira verdt er enn allt þetta: ad hans vegna hefir Gud fyrirgéfid oss vor mørgu og miklu afbrot. O! hvørnig fáum vér þackad honum, sem ber, þvílíka velgjørnínga! vanmegni vort til lífs og sálar, sannfæra oss um, ad oss sé þad ómøgulegt, ad endurgjalda honum allt þad góda, sem hann hefir vid oss gjørt, en því framar er þad vor skylda ad prísa þig, vor Gud! óaflátanlega fyrir allt þetta, ad þjóna þér med lífi og sálu, og setja á þig vort gjørvalla trúnadartraust. Svo opt, sem vér rennum þannkunum til þinna velgjørnínga, svo opt láttú oss

í hug koma, hvørsu mikid vér egum þér ad þacka; viljum leitast vid ad dýrka þig med gjørvøllu lífi voru; þanninn viljum vér ástunda ad lifa, sem þín óendanlega náð vid oss verdskuldar. Í stødugum kjærleika til þín, og føstu trúnadartrausti til þinnar gædsku, upphvetji oss sérhvørr dagurinn, sem þú lætur oss lifa, og sérhvørr velgjorníngur, sem þú daglega lætur oss í tje. Ef ad oss tækist, samsvarandi þessu hugarfari, ætíd ad breyta, mundum vér reyna þinn kjærleika til vor því ástúdlegri, því godgjarnari, sem vér lifum lengur.

## 20. Hugvekja.

*Ecki minn, heldur verdi þinn vilji.*

Í voru valdi er jafnan ad bidja vorn Gud; á þessari qvøldstundu verdur og efalaust innihald vorra bæna þad, sem vort hjarta helzt girnist, nefnilega þetta: himneski Fadir! sem látid hefir oss lifa þennann dag út, láttú ecki þessa nótt verda vora sídustu! hlíf oss fyrir þeim qvídvænlega skilnadi, sem hrífur oss í skyndíngu á burt frá þeim, sem oss eru kjærastir á jordunni, ellegar þá frá oss!

hlífdu ofs fyrir þeim sárn bágindum, ad komast í fátækt og verda naudlídandi! frá því, ad fara med vonarvöl, eda neydast til ad beidast ölmusu! hlífdú ofs fyri lángsömum, þúngum sjúkdóms pínum, undir hvörjum margir óska sér daudans! Þessar bænir til Guds eru ad sönnu engannvegin lastverdar, þó mega þær verda svo, ef vér, svo ad segja, byggjum þar med ad neyda Gud til ad bænheyra ofs, og uppfylla þessar óskir, ellegar ef þær framkoma af óþolinmædi, hafi Gudi ecki þóknast ad láta ofs ödlast þad vér umbeiddum; því vor skylda er, eins þá ad láta ofs lynda, ef Gudi þóknast mætti ad kalla ofs hédan frá öllu því, sem ofs er kjært, eda ad svipta ofs vinum vorum, ellegar láta ofs rata í armód og volædi; því allteins þá ber ofs med hlýdni fúsum ad fela ofs hans födurlegu rádstöfun, og segja med vorum Jesú: skal eg ecki drecka þann kaleik, sem minn Fadir hefir mér géfid? Yfrid hörd sýnist ofs, sem af náttúrunni til breiskum manneskjum, þessi kénníng, en vér erum þó skuldbundnir til ad hlýdnast henni, sem þegnar vors ædsta Yfirherra; hans er

máttuginn og Herradæmid yfir øllu því, sem er á jørdunni, og þegar vér gjætum þess, ad hans Herradæmi er ásamt hid mildiríkasta, mun oss aldrei ydra, ad oss falid høfum hans fødurlega vilja, því allt er oss þad fyrir bestu, sem vor alvísi og nádugi Gud lætur vid oss framkoma. Veiti hann oss ecki allar þær óskir og bænir, sem vér svo ydugleglega og allopt íhugunarlítid framberum fyrir hann, og vitum þó sjaldan hvad oss er fyri bestu, géfur hann oss vissulega annad oss holl- ara í þess stad, sem bætir oss ad fullu søknud þess, sem vér svo ákaft óskudum eptir; þóknist honum ecki ad láta oss ná gráhærdum gamal - alldri hér á jørdu, mun hann þó, hvørsu fárra æfidaga sem hann unnir oss, á þeim votta oss full merki síns kjærleika, sem gjøra má oss ánægda med burtfør úr þessum heimi; þóknist honum ad svipta oss því, sem vér hofdum mest yndi og ánægju af, þá veitir hann oss annad hollara í stadinn, sem enn framar verdskuldi vort þacklæti; finni hann þénanlegt ad svipta oss eign- um vorum og senda oss fatækt, hvørr veit hans góda og vísa tilgáng þar med? þóknist honum ad láta oss heilsuveiki

tilfalla, viljum vér þó una því vel, þegar hann að eins viðheldur heilbrygði sálar vorrar, og lætur oss aldrei yfirgéfna né hjálparlausa í sjúkdómum þeim, sem hann á oss leggur. Við þessa íhugun finnum vér, að hvörninn sem á kann að standa fyrir oss, eða hvað helzt sem oss mætir, er oss æ fyrir bestu, að leggja oss fúsa undir vilja og stjórnun vors Guðs. En vyrdstú, ó vor Guð! að láta þinn góða Anda innræta oss þetta kristilega hugarfar, og styrkja það með náð þinni, þá helzt, þegar vér mest með þurfum; þegar einhvör líssins armæða og mótlæti ber oss að höndum, géf oss þá náð til, með þolugu staðuglyndi, að þreya undir þjáníngarinnar þúngu byrði, og auðsýna þá með voru dæmi, öðrum til eptirbreytíngar, hvörsu óyfirvinnanlegur í öllum þrautum sá sannkristni er, sem ljúfur lagði sig undir og fól Guðs föðurlega vilja.

## 21. Hugvekja.

Þegar vort líf hefir kostulegt verið, hefir það verið mæða og erfiði. (Psálm. 90).

Yfrið sorgleg er sú afmálan, sem vér megum gjöra oss yfir það mannlega líf, ef vér tökum oss fyrir hendur að

yfirvega allann vorn alldur, frá fyrsta uppruna vors lífs, og hǫldum áfram til sídustu æfiloka, hvørsu margfaldra eymda og armædu verdum vér þá ecki varir? Hvad er manneskjan á medan hún enn þá er innilukt í módurlífi, nema veséel vera og einbert manneskju-efni, og sér einkis medvitandi um ástand sitt; hvørsu mørgum háska-tilfellum er fóstrid ecki undirorpid fyrr enn þad sjer ljós dagsins? varla er þad fullfædt fyrri enn þad tekur ad gráta, rétt eins og þad spái sér þeim sorglegu tilfellum, sem því mæta muni á-leid lífsins; eckert magn hefir þad sjálft sér til bjargar og frelsis, engin medøl, enga vidburdi, skyn eda úrrædi, heldur verdur því ad hjúkra, og þad nærast og fóstrast af ødrum; hvørsu margfoldum háska er þad ecki undirorpid fyrr enn þad fái sjálft stjórnad sálu sinni og líkhama? og þegar því vex alldur, lætur veikleiki og breiskleiki vor mannsképna sig snemma í ljósi, í margfoldum heimskuporum og brestum. Komist manneskjan af barnsaldri, er henni engu óhættara; vor egin reynsla vitnar gégn oss, ad þó vor skynsemi þá sé møgnud, vor þecking aukin, vorar skyldur, og hvad oss má til

farsældar horfa, oss kunngjørt, breytum vér opt enn berusknlegar enn ádur; og gleymum ad brúka Skapara vorum til dýrdar, og oss til ævarandi heilla, þenna blomstrandi part æfi vorrar. Þrar sinnis-hræríngar og syndugar tilhnegíngar vaxa med degi hvørjum, og hjá ossmorgum taka loks svo yfirrád yfir skynseminni, ad því elldri vér verdum, því meir fjærlægjumst vér Gud og hans vilja; stundum uppblæs oss reidi eda dramb; stundum brennum vér af losta, ágyrnd, øfund og hefndargyrni; ydjuleysi leidir oss á stundum til margra aññara lasta, sem olla oss sinnisórón, vondrar samvitsku, ótta fyrir Guds ónád og margfaldrar ógæfu. Med fullordins alldrinum margfaldast vorar eymdir og andstreymi því meir, sem vér høfum fleira ad annast, og egum vid bágari kost ad búa. En loksins komnmst vér nockrir á hid efsta skeid mannlegs alldurs, og þá er vort ásigkomulag allopt hid aumasta; þá gjørast augu vor sljósskygn, eyrun heyrnardauf, andlitid hruckótt, høfudid hvítt af hærum, smeckurinn deyfist, tennurnar falla burt, hendurnar skjálfa og allur vor líkhami vanmegna, vér verdum børn

á ný, ósjálfbjarga og annara hjálparþurfar; hér á bætast einatt svefnlausar nætur, vhl og bjargar áhyggja, harmatölur, líkhams lasleiki og sjúkdómar, og hvörr fær talid allar þær eymdir, sem ellinni á stundum fylgja, og ecki skilja vid oss fyrri enn vér liggjum lík? Loksins rotnar þetta í grøfinni, nagast af ormum og verdur ad dupti; og þetta er þad seinasta, sem vér þeckjum til mannlegs lífs hér á jordu. Nockud af þessu sorglega hefir margur af oss þegar reynt, en hvörsu margt má ecki enn fyrir oss liggja? máské næsta nótt eda næsti dagur hafi oss nockrar þesshåttar líssins eymdir fyribúnar; á hvörjum helzt alldri sem vér erum, megum vér búast vid einhvörjum á ókomna tímanum, en fyri honum og því, sem oss þá mæta kann, fáum vér aldrei betur sjed, enn med því, ad fela þér, ó vor Gud! og þinni nádugu umsjón á vald, alla vora komandi æfidaga; án þinnar adstodar og hughreystingar, verdur oss líssins mæda óttafull; med þínum styrk og fullvissunni, ad allt verdi þeim til gods, er þig óttast, verdur hún oss léttbær. Vyrdstú ad miskuna þig yfir oss auma, eptir mikilleik þinnar miskunar!

## 22. Hugvekja.

Gángid forsjállega, ecki eins og fávísir, heldur eins og vísir. (Eph. 5.)

Að sérhvörju qvøldi høfum vér yfirfarið litinn spøl vegferdar vorrar hér í heimi, og ferdumst nýañ á sérhvörjum morgni dags; má oss því vyrdast, sem oss með degi hverjum birtist ný verøld, í hvörri vér ecki einúngis megum búast við nýum freistingum, heldur nýum skyldum, sem oss ber að geyma. Fyrifram er því rádlegast að morgni hvörs dags, að þú, kristni madur! sem vilt lifa forsjállega, skodir og yfirvegir í einrúmi sérhvörja þá skyldu, sem þér á þeim degi ber að framqvæma; vertú því aldrei áhyggiulaus og óviðbúinn á morgni hvörs dags, að taka forsjállega því, sem þér mæta kann í verøldiñi, heldur gættú þess, hvörsu hættuleg hún má verda hjarta þínu, þegar þér varhygdarlausum mæta þær gyñingar, sem hún opt framhýdur. Nema Guds ótti vísi þér veg, nema Guds allstadar nálægd gleymist þér ecki, verdur þér villuhætt í heimsins tælanda glaumi og gjálífi; þess vegna ber þér að morgni hvörs dags, ádur eñ

þú géfur þig úti heimsins hættulega soll, ad hugfesta skyldur þær, sem þér ber æ-tíd fyrir augum ad hafa, í öllum lífsins umsvifum. Lát þú náqvæma skodun náttúrunnar niðurskipunar, og yfirveg-un gudlegrar stjórnunar, kénna þér ad þeckia Guds miklu eginlegleika; mundú til Guds óendanlegu alvitsku, sem gjör-þeckir allar sínar sképnur, gjörvallar at-hafnir sérhvörrar, og þeirra huldustu þánka; þetta á ad vekja hjá þér heilag-ann ótta fyrir hans hátign, sem varni þér ad ala synduga þánka i hjarta þínu. Minnstú opt allstadar nálægdar þíns Guds, sem má vera þér yfrid huggun-arrík, þegar þú undir eins minnist, ad Gud er þinn Fadir og verndari, hvar sem þú ert staddur; yfirvegadú í huga þínum hans oendanlegu gædsku, ad vor Gud er einber kjærleiki, og ad gjörvöll náttúran er full af hans gódgyrni; rif-jadu upp fyrir þér dæmi uppá hans margfoldu og sérlegu vernd, frelsi úr háskasemdum, dæmi ótal óvæntra vel-gjörninga, sem þú hefir adnotid á umlid-inni æfi þinni, af hans miskun; hugleid þú fávitsku mana og spillíngu, sem veki hjá þér undrun yfir Guds óþreytanlegu

þolinmædi og lánglundargédi; láttú þér í hug koma afbrot þín, til þess, ad yðrast þeirra af hjarta, en einkum og allra helzt, vyrdtú fyrir þér Jesú ómetanlega kjærleika: skodadú hans nidurlægíngu, ad gjørast manneskja; ad taka uppá sig vort hold og blód, og allann mannlegann veikleika; ad þola, vor vegna, allskonar vanvyrdu og þjáníngar, og loksins krossins bitra dauda. Hvørsu undrunarverdur, hvørsu guddómlegur og óútmálanlegur er ecki þessi Jesú Krists kjærleiki! láttú þánka þína fylgja honum eptir í gégnum allt hans líf og allar hans píslir, til grafarinnar; set hann þér fyrir sjónir í hans upprisu dýrd, og í hans hátignarfullu himnaför, en rendú þá undireins augunum til sjálfs þíns, og sjádú hvørsu breiskur og vanhelgur þú ert; þar af fær þú lært ad þeckja mikilleik guddómlegrar nádar þér til handa. Þegar vér æfum oss í þvílíkum þánkum ad morgni dags, og gleymum ecki heldur því sama ad qvøldi, munum vér efalaust fá sigrad sérhvørjar freistíngar, sem oss mæta; audveldara mun oss þá ad gæta vorrar skyldu, því kraptur Guds mun þá styrkja oss veika; þá munum

vér ad qvøldi fá gladst yfir velbrúkuð-
um og farsællega endudum degi.

## 23. Hugvekja.

Þú ert mitt traust, Drottinn! Drottinn! mín
von í frá úngdómi mínum. (Psálm. 71.)

Séum vér sannfærdir um þad, ad
gjørvallt ráð Guds er einúngis
gædska og vísdómur, ætti eckért, sem
mætir oss í heiminum ad abla oss láng-
vinnrar hrygdar; því skyldum vér þá
møgla yfir stjórnun Guds, eda gjora oss
siálfa órólega med ónýtum sorgum?
Engannveginn skulum vér greina, þó ad
vér fáum ecki allar vorar óskir uppfyllt-
ar, því hvørr veit nema þær hefdi ordid
oss til ógæfu einar, ef veittust; viljug-
ir skulum vér því fela oss á vald Guds,
hvørs náð er óendanleg og ævarandi;
hvørsu luckusæla megum vér ecki álíta
oss, ad sá almáttugi siálfur verndar oss,
vidheldur og forsorgar oss, og þó ad oss
bæru nockrar mótlætíngar ad høndum,
því skyldi þad abla oss hrygdar, fyrst
þær útblutast oss af vorum vísa og misk-
unsamasta Fødur? Sannarlega fáum
vér eckért ríkara íhugunar-efni, enn þad,

ad vér stöndum undir umsjón og varatekt lifanda Guds; ef ástríkur fadir vill ecki gjöra barni sínu mein, hvörsu sídur mun þad Gudi ætlandi, hvörr, eins og fadirinn miskunar sig yfir sín börn, eins miskunar Drottinn sig yfir þá, sem hann óttast. Í stjörnum heimsins finnum vér óteljandi kénnimerki guddómlegrar speki, nádar og almættis, því skyldi þá sú adgætsla ecki hvetja oss til, med ánægdu hjarta, ad lypta vorum hjörtum upp til þessa alvalda Herra, sem svo dásamlega stýrir öllu, og hefir svo nærgætna og nákvæma umsjón med lífi voru, og vakir ætíd yfir oss. Allur ótti, allur qvídi má því hverfa oss, þegar vér hugleidum, ad Gud er oss nálægur, allteins á heimualegustu stodum. Eg er, má sérhvörr af oss þenkja, hér einmana, en Gud er og med mér; eg geng hér einsamall, en Gud leidir mig veginn; hvört sem eg tala, þenki eda þegi, sier og þeckir Gud allar mínar hugreñingar og allt hvad mér mætir. Veri mér mæda nockur ad höndum, leita eg hennar úrræda hjá mínum Gudi. Njóti eg nockurra lífsins ánægju-stunda, á eg ad þacka þær mínum himneska velgjörara. Ut-

helli eg í einrúmi harmatárum, veit eg hann sjer og telur þau. Andvarpi eg í mínum einmanaskap og eymdum, er eg samt viss um, ad Gud minn sjer og heyrir mín andvorp. Sé eg í háska staddur, veit eg ad Gud er minn verndari. Megi eg sjá á bak ollum mínum bestu ástvinum á jordunni, veit eg þó, ad Gud er, og verdur til eilífdar, minn besti og trúfastasti vinur; og loksins, þegar ad því kémur, ad eg skal yfirgéfa þenna heim og safnast til fedra miña, mun sá Gud, sem gjordi mér svo margt og mikid gott í lífinu, verda mér einnig nádugur Gud í dauda. Þegar vér nú í sálu vorri hofum grundvallada þessa trú og von til ens alvalda himins og jardar Skapara, megum vér hughraustir vera, hvad sem ad hondum ber. Ad sonnu vitum vér ecki hvad oss á nærsta degi mæta muni, en þad vitum vér med vissu, ad allteins á þeim komandi, sem hinum afliðnu degum vorra lífsstunda, munum vér reyna morg merki Guds nádar. Morg þúsund daga hefir margur vor lifad, og á sérhvorjum þeirra hofum vér notid einhvorrar nádar eda, velgjorninga Guds; hvors skul-

um vér þá heldur vænta á þeim komandi tímum, enn nýrrar Guds nádar? Eptir því, sem vér reynt hofum híngad til þína trúføstu gædsku, ó vor Gud og Fadir! vogum vér óqvídnir og øruggir ad fulltreysta henni hér eptir, og fela oss framvegis þér á vald. Vyrdstú ad sjá fyrir rádi voru og øllum vorum lífskjørum, samqvæmt þínum náduga vilja, en géfdu oss ánægt hjarta med allt þad, er þín speki úthlutar oss; vér erum þess fulltrúa, ad þú, eptir ad voru reynslustandi hér í heimi er lokid, munir leida oss til eilífrar ærn.

## 24. Hugvekja.

Vorir dagar eru skyndilegar burtflognir enn vefarans spóla, og eru svo hjáfarnir, ad þar var engin vidstada. (Jobs 6 7.)

Hvørsu hastarlega burtflýgur mannleat líf! einn dagur er enn á ný, rétt eins og eitt augnablik, útlidinn; og þetta eru almenn kjør allra mannlegra daga, þeir renna á burtu, sem vatnsstraumur, í skyndingu; einn dagur víkur frá þeim komanda, og mánudurinn og árid flýtir sér hvert eptir ødru, og

þessi umskipti munu viðvara, þángað til tímans straumur þverrar við mót eilífðarinnar. Hvörsu lángt sem vera kann, uns svo almennileg umbreyting skéður, við hrun þessa heims byggíngar, er þó máské álík sérlega nálæg sérhvörjum af oss; því þegar vér deyum, er vor tíð á enda, vorir dagar burtu flognir, og þá býðst ecki framar tækifæri til, að ödlast náð Guðs og hans kjærleika, hafi þessa ecki fyrri leitað verið; við endir þessa dauðlega lífs, er bænar, yðrunar og vonarinnar tíð útrunnin; á sama augnabliki, sem dauðinn kallar oss, er sérhvörs tilreiðslu tíð oss eilíflega mist og á enda. Vor hérvistartími líður á burt og styttist með jafnri ferð, sem dauðinn nálægist oss framar með sérhvörjum degi og sérhvörri stundu, og vor dauða- og dóms-dagur verður oss þannig með hvörjum degi nálægari. Vor síðasti dagur er oss því bráðlega upprunninn eða á enda, og hans lok skulu áqvarða vor eilífu kjör. Þetta eru hugleiðíngar þær, sem sérhvörs dags endir alvarlega minnir oss á. Hvörsu mörg þúsund manna munu nú á þessum næturtíma kallast fram fyrir Guðs dóm-

stól, og hvad þá? ef ad einhverr af oss á nóttu þessari verda ætti í þeirra tølu? Ef ad sú skélfandi rødd hljóma ætti fyrir mínum eyrum á nóttu þessari: gjørdú reikníngsskap þinnar rádsmennsku! O Gud! hvørsu ógnar mér þessi þánki? hvad mundi eg úr ráda ef ad svo skédi? æ! ad falla þér til fóta, miskunsami Fadir! og bidja þig, fyrir Jesú forþénustu sakir, ad vera mér nádugur; ad bidja þig ecki ad minnast minna umlidnu, eyddu, og til einkis, eda ílla, brúkudu daga; en máské daudinn yfirfalli mig svo voveiflega, ad eg fái ecki stundir til ad bidja og fela þér mína sálu. Eg vil því nú þegar gjøra þad; þá bæn, sem eg vildi fyri þig frambera á mínum sídasta tíma, vil eg nú uppsenda til þín á þessari qvøldstundu: ó minn Gud! æ! vertú mér, fyrir Jesú forþénustu sakir, nádugur, og fyrirgéf minna umlidnu daga afbrot. Kénndú mér þann vísdóm, ad telja mína daga, og hugleida hvørsu fáir og óvíssir þeir eru, ad eg í tíma læri ad búast verduglega vid minni burtferdar-stundu. Brádum burtlída þeir dagar, mánudir og ár, sem eptir eru af mín-

um áqvardada skamti hér í lifi, uns eg má vidbúast ad flytja inn í endalausa eilífd; ó ad hún yrdi mér farsæl eilífd! Eilífi Gud! þú einn fær uppfyllt þessa mína ósk, þá mest árídandi allra minna óska. Hvort sem mín æfitíd verdur blíd eda stríd, má mig lítils varda, egi eg ad eins sæla eilífd í vændum. Hún skal þá kénna mér, ad blessa sérhvørja mædustund, sem þín forsjón hér úthlutadi mér, til minna eilífu heilla, og ad líta med gledi yfir mína afstidnu æfidaga.

## 25. Hugvekja.

Kénn þú oss ad hugsa þad, vér hljótum ad deya, svo vér forsjálir verdum. (Psálm. 90).

Ef vér viljum æfa oss í heilsusamlegri umhugsun daudans, ádur enn hañ ad ber, finnum vér þad allavega umhverfis oss, sem oss má minna á hann, setja hann lifandi fyrir sjónir, og votta oss vorn daudlegleika. Hvørs dags qvøld minnir oss á vora endalykt, og á hvørs dags morgni megum vér segja vid sjálfa oss: vid lok þessa dags á eg eina dagferd færri eptir, af minni vegferdar reisu í gégnum lífid; eg hlýt því, med tvøfaldri

ástundun, ad keppast eptir framförum í sönnum kristinndómi, þess heldur, sem min daga og ára tala styttist meir; og hvad tjá oss vor ódum burtlídandi ár annad, enn þann sannleika: manneskja! tíminn er stuttur og burtflýgur í skyndíngu? Hvört sem vér rennum augum vorum á þetta forgengilegleikans skodunarpláts, finnum vér allavega umbreytíngar, óstödugleika og eydileggíngu; allt, já, eckert undantekid, í gjörvallri náttúrunni, minnir oss á vora egin endalykt. Blödin á trjám og urtum, blómstrin á mörkinni, vindurinn, sem þýtur oss um eyrun, skýin, sem hverfa svo ódum burt, reykurinn, sem vindurinn feykir, grasid, sem svo hastarlega visnar, og ótal adrir hlutir, er vér höfum fyrir augunum, sannfæra oss um vorn forgengilegleika, og allra jardneskra hluta stuttu tilveru. Vér fáum ecki minnst vors bústadar, án þess daudinn komi oss undireins í hug; fyrri enn vér hafa adrir búid á sama stad, sem nú eru daudir, og lengi mun þad ecki vara, ádur daudinn kallar oss hédan, til ad víkja fyri þeim, sem hér skulu byggja eptir oss; nær því allstadar má halda

að vér gaungum hér yfir daudra bein, og hvorr veit, hvörsu nálægir þeir daudu eru oss, sem vér af hjarta elskudum medan þeir lifdu? en hvört vorir sofnudu medbrædur eru oss nær eda fjær, vardar engu, þar bitt er víst: að daudinn er oss nálægur, já, enn þá nær, enn vér leidum oss í grun. Máské hulin veikindi hafi þegar fest sig í minu blódi, sem géti útbrotist á þessari nóttu, og lagt mig brádum í grøfina. Máské eg á nærstu stundu leggist sjúkur eda jafnvel daudur. Að þetta sé að óttast, gjera óteljandi dæmi líklegt. Hvad fáum vér því naudsynlegra gjört, enn endurkaupa þá tíd, sem vér enn þá egum eptir, medan vér enn þá njótum heilsu og fullra krapta? hvad er tilhlýdilegra, heldur enn að hugsa til daudans, sem fylgir oss med sérhvörju fotmáli? hans tilhugsan má því og á að blanda sér í allar vorar lystisemdir, og ecki víkja frá oss, þegar vér gledjumst med vorum ástvinum. En þú, alvísi Gud! þeckir vort hjarta, og veitst hvörsu veikt þad er til að strída gégn daudans ótta og skélfingu; þú veitst, hvörsu ógédfeldt oss er að hugsa til daudans; kénndu oss því þann visdóm, að minnast hans

alvarlega, og gèfdú ofs nád til að æfa ofs í daudans nytsamlegu umþenkíngum. Því umhugaðri, sem daudinn verdur ofs, því framar verdur ofs umhugad um vora sonnu farsæld; ecki er því ad óttast, ad daudans hugleidíngar bitri ofs lífid, eda olli þess óróseimd, miklu heldur fá þær giort ofs lífid sannarlega farsælt, med því ad innræta ofs það áform, ad vera, hvønær sem daudinn ofs kallar, vidbúnir, gladir og ánægdir ad skiljast vid þenna heim; verdum vér því skapi farnir, erum vér vissulega sælir bædi um tíma og eilífd.

## 26. Hugvekja.

Gledjid ydur í Drottni alla tíma. (Phil. 4).

Vér lifum í þeim heimi, sem vottar ofs gædsku Guds og kjærleika í ótolulegum hlutum. Jordína hefir hann prýdt med fjølda af margvíslegum gædum. Hans vilji er það ecki, ad vér eyda skulum døgum vorum í sífelldri óánægju, eda neita sjálfum ofs um, ad njóta med gledi hans velgjorda; þess vegna hefir hann svo dásamlega lagad vor skilníngarvit, ad sál vor gledst, þegar vér

smockum, sjáum eda heyrum vissa hluti. Guds nádugi vilji er þad, ad vér lifa skulum hér á jördunni, svo ánægdir og rólegir, sem mögulegt er í þessu órólei-kans landi; þó er þad audsætt, ad vér erum ecki til þess skapadir, æfinlega hér ad lifa; því þareð þad land, sem vér byggjum, er ad álíta sem gésta-herbergi oss til handa, er þad ecki Skaparans tilgángur, ad hér sé vor eilífi samastadur; nei! heimur þessi á einúngis ad vera oss skóli, í hvörjum vér læra egum vísdóm; reynslustadur, í hvörjum oss ber ad búa oss verduglega undir eilífdina. Margar og mikilvægar eru því skyldur þær, hvörra vér gæta egum á medan vér búum hér á jördunni, bædi vid Gud, sjálfa oss og medbrædur vora; en, óhófleg brúkun þessa lífs gæda, fær audveldlega hindrad oss frá ad æfa þessar skyldur, og sífeldar tvístrandi sorgir og áhyggja fyrir því jardneska, draga vort hjarta frá Gudi og eilífdinni, opt án vorrar vitundar. Hvad er því til ráda? Hvörttveggja, þad himneska og jardneska, þad eilífa og þad stundlega, ber fyrir augum ad hafa; vér egum ad nota oss og brúka réttilega þessa heims gædi, þad er: med hófsemi

og skynsamlega; vér meaum glêdja oss vid lífsins yndælt, en ætíd med hófi; vér megum fœra oss í nyt allt þad góda, sem náttúran framreidir oss, en aldrei þess vegna gleyma vorri ædri og eilífu áqvordun á himnum. Hvorsu farsæla mættum vér ecki meta oss, ef ad vér ætíd fylgdum þessari lífsreglu, og lærdum nú þegar ad dæma skynsamlegar enn híngad til, um þessa lífs gjædi og lystisemdir. En, því midur! vér finnum hjarta vort enn þá allt of fast bundid vid heiminn; vér finnum hvorsu mikid vald þetta jardneska hefir yfir oss; hvorsu torveldt, já, ómögulegt þad er, voru spillta og breiska hjarta ad afneita heiminum, ad eyda hjá oss elsku til þess forgengilega, en festa í þess stad hjarta vort vid ædri og eilíf gædi. Því skyldum vér þá mögla á móti Gudi, þó hann svipti oss þeirri gledi, sem vér álítum mikilvæga luccu vorri, en sem hann sjer oss skadlega? eda þó hann svipti oss vorum kjærustu ástvinum, sem vér máské, elskudum framar eñ hann? ellegar: þótt hann svipti oss audæfum, sem vér, kannské, möttum framar enn bar og ofmjög festum hjörtun vid? Vér breyttum miklu skynsamlegar, ef ad

vér mettum allt þetta forgengilega eptir þess sanna verdi; rólegri daga mundum vér njóta, værum vér ecki of fast bundnir vid þetta jardneska; þolinmódari værum vér lífsins mótlæti, ef vér gættum þeirra oss hollu afleidínga fyri vora sönu áqvordun, og minna mundum vér qvída dandanum, ef vér ecki hefdum ofmikid dálæti á enu jardneska. O Gud! kénndú oss ad meta heiminn eins og sannkristnum ber! nóg hefir hann til af því, sem vakid fái óskir vorar, en ætíd er hann ónógur til ad fullnægja þeim; nóg er hann ríkur til ad gledja oss, en of-fátækur ad gjøra oss hólpna. Vort fødurland er á himnum, vor vegur þángad liggur ígégnum heiminn; hér leitum vér opt forgéfins heilla og ánægju, en þar munum vér hvorttveggja fullkomid finna.

## 27. Hugvekja.

Gud er trúr, sem ecki lætur ydur freistast yfir megn fram. (1 Cor. 10).

Svo er øllum jardneskum hlutum varid, ad þeir audveldlega fá tælt vort hjarta, til ad gleyma allri áhyggju fyrir því, sem oss er meira árídandi; jafnvel saklausustu hlutir mega verda

háskalegir fyrir vora velferd, ef vér ecki brúkum þá med gætni og forsjálega. Þar ed vér opt hofum komist ad raun hér um, væri nú tími til ad þeckja vorn veikleika, og gjorast varhygdarsamari í nautn og brúkun jardneskra hluta; en, hversu fast er ecki hjarta vort enn þá bundid vid þad forgengilega? sérhvør dagurinn géfur oss þar um nýa raun. Lífsins áhyggja, audlegd og vellyst trubla oss á hverjum degi, en hvad mun lokkins hér af leida oss til handa? efalaust þad, ad hvad sem oss ætti mest umhugad vera, gjørir framar enga verkun í hjarta voru, svo ad vér verdum tilfinningarlausir vid dýrmætustu sannleika Guds orda, sem þó ættu ad hræra og betra oss; vér skélfumst vid eilífdarinnar umþenkingu, sem þó ætti ad gledja oss; af því orsakast léttúd vors hjarta, og umhyggjuleysi fyri velferd vorrar sálar; af því leidir þad, ad vér hlifum oss vid ad taka uppá oss Jesú kross, afneita sjálfum oss og fylgja honum eptir; þess vegna verdur daudinn svo bitur, ad vér vitum hann eittsinn muni svipta oss ollu, sem vort hjarta hafdi svo miklar mætur á. Þessi qvoldtími er oss hentugur, til ad hugsa fram-

ar, med eptirþánka, um þetta efni; vér skulum því segja skilið við heimsins tvístrandi glaum og soll, og renna þaunkum vorum til þess, sem oss mest áríður og viðvíkur vorri eilífu áqvörðun. Vorn huga viljum vér hefja til Guðs á þessari stundu; hann skal nú einúngis vera mál og mið vorra óska, vors kjærleika og vorrar vonar. Setjum oss því lifandi fyrir sjónir, hvílík lucka það er, sem vér aðnjótum, að vera Guðs börn og hans Sonar endurleystu; vor alvarlegasti ásetníngur veri nú sá, að afhenda oss þér á vald, Guð, allrar gæðsku! og hvörki láta lífsins gleði, né lífsins þreyngíngar snúa oss frá þér framvegis; með þacklátu hjarta viljum vér minnast þess, hvörsu dásamlega þín forsjón hefir leidt oss í lífinu allt híngað til, og hvörsu óútmálanlega mikla náð vér egum þér að þacka, frá þess fyrsta birjun, ecki sízt í því, að þú hefir látið oss óhegnda, er svo opt höfum misbrúkað þína elsku og brotið þín boðorð. Vér viljum og setja oss fyrir sjónir, þá miklu umbreytíngu, sem oss mæta mun við dauðans og eilífðarinnar aðkomu, og nú láta þá tilhugsun verða oss kroptuga upphvatníngu til sannarlegs

Guds ótta; vér viljum drottna yfir vorum gédshræríngum, og fýsnum, svo þær leidi oss ecki afvega, eda spilli vorri eilífu velferd; en þessi gódi ásetnínaur fær þó ecki stodad oss, nema þú, vor Gud! sjálfur stjórnir voru hjarta og helgir vort áform. Ef vér reidum oss á vorn stødugleika, verdum vér audveldlega sigradir, þegar vér géfum oss úti heimsins soll án þess ad minnast þín; en ef þín hjálp styrkir oss, verdur oss unnt ad fordast hans tálsnørur, og lærum undir eins minna ad meta heimsins heill, en képpast af alvøru eptir þeirri eilífu á himnum.

## 28. Hugvekja.

Verid ecki áhyggju' fyrir morgundeginum — hvørjum degi nægir sín þjáníng.

Mikid af þeirri áhyggju og sorgum, sem olla oss órósemi í lífinu, leidir af því, ad vér hugsum med ángist og qvída til ókominna daga, sem vér gjørum oss í grun, ad oss muni ørdugri verda enn þeir nálægu. Tídum verjum vér øllum sálargáfum vorum til ad leita upp dæmi sorglegra tilfella, og grenslumst eptir einhvørju því hrigdarefni, sem vér

óttumst, ad hér eptir megi mæta oss. Hvørsu rólegir mundum ver ecki lifa, ef vér bærum ecki áhyggju nema fyrir því nálæga, en fælum Guds alvísu stjórnun á vald allt hid ókomna? ef ad vér brúkudum oss til hugguuar í sérhvørjum tilfellum lífsins, øll þau dásamlegu merki, sem vér híngad til reynt hofum um Guds forsjón; en voru hjarta er svo varid, ad þad øllu framar eykur sér óþarfa órósemi, áhyggju og sorgir. Oss til blygdunar megum vér játa þad, ad vér høfum eydt mørgum tíma vors lífs til þvílíkra vhlsamra umþenkínga; þegar vér vøknudum ad morgni dags, vaknadi undir eins vor sorglega áhyggja fyrir því, sem oss mæta mundi þann dag, og hinn fyrsti þánki, sem oss rann í hug um morguninn, var qvídi fyrir þess dags mædu, þared þó þacklæti til Guds, fyrir rólega næturværd og vardveitslu frá allskyns háskasemdum, átti øllu framar ad fylla vort hjarta. Hvørnig mun oss vegna í dag eda á morgun? spyrjum vér opt sjálfa oss; vid hvørjum óhappa tilfellum munum vér nú ega ad búast? hvørskyns sótt eda sjúkdómur mun leggja oss, þá minnst vonum varir, í rúmid?

hvört mun verda vort bana-efni? hvorr vor dauddagi? mun voveiflegt tilfelli enda vora daga? munum vér þurfa ad qvída sérlegum slisatilfellum, óhamingju eda eigna tjóni? Med þvílíkum grillum qveljum vér opt sjálfa oss ad þarfarlausu, vekunm ad morgni med áhyggju sorgum, og leggjumst med þeim somu til svefns ad qvöldi. O! vér fávísir! því skopum vér oss svo margt þúngt óþarft? svo mikla mædu til einkis? því auka oss böl, med óþarfa áhyggju fyrir ókomnum tíma, þegar vér gétum notid ánægju? mun þá ecki sá Gud, er svo födurlega hefir annast oss hingad til, og aññast oss eñ í dag, géta sjed fyrir oss á komandi tímunum? mun honum ördugt velta, ad snúa þeirri ógæfu, sem vér qvídum fyrir, oss í hag? hættú, sála mín! segi því sérhvörr vid sjálfann sig; hættú ad styggja þinn Gud, med ángist og qvída fyrir komandi tilfellum lífsins, sem gjora þig svo órólega; leitastú vid ad burthrynda allri efasemd. sem vantrúin ein vekur hjá þér: bid Guds rádstöfunar í kyrrdum; gjordú þér ecki lífid, med þvílíkri adferd, mædusamara eñ ber; þá seññ hugar rósemi máttú ætíd fiña í öruggu trúnadartrausti

til Skapara þíns, sem er þiñ, fyri Krist, friðþægði Faðir; frá honum máttú ætíð vænta ens besta og þess, sem þér er hollast; segðú því hughraustur: vel og dásamlega mun efalaust minn Guð leiða mig hér eptir, sem híngað til; ef sérhverr dagur míns lífs hefir géfið mér órækt merki hans foður ástar, mun eg líka á mínum ókomnu døgum sañfærast um hans náð; eg veit á hvern eg trúi! hañ er minn Guð og Faðir, minn verndari og velgjørari; í hans høndum eru øll mín kjør og allt, sem mér mætir; allt fel eg það honum á vald; fús vil eg leggja mig undir sérhvað, sem hann mér úthlutar. Komi mér því að høndum lán eða ólán, líf eða dauði, allt verður mér það hollt og blessað, eptir forsjón míns góða Guðs.

## 29. Hugvekja.

Hjartkjærann hefi eg þig, Drottinn! minn styrkleiki. (Psálm. 18.)

Hefði Guðs gæðska ecki hagað því svo, að vinátta og mañkjærleiki fiñdust manna á milli í heiminum, til að gjøra sambúðir þeirra ánægjusamar, væri veröld þessi lángtum sorglegri, enn hún

nú er, og enganveginn í henni unandi, en án Guds má jafnvel ástúdlegasta vinátta ecki veita oss neina sanna gledi né ánægju; sé hann vor vinur, erum vér í öllu tilliti farsælir; hjá honum finnum vér þá huggun, hjálp og adstod þegar oss áliggur, sem vanmáttur vina vorra aldrei fær oss veitta, og enn ástúdlegri kjærleika, enn vér vænta megum af besta ástvini. Af Gudi megum vér vænta oss huggunar og athvarfs í sérhvörju lífsins andstreymi, sem oss mæta kann; hann er vor styrkleiki, vort slot, vort hellubjarg, vor Gud og hjálpari í allri neyd; vinskap hans og kjærleika fáum vér best reyndann og þecktann, sénum vér í neyd eda vandrædum staddir; þá fáum vér fyrst matid rétt hans elsku, og hversu öblugur hjálpari hann er; þegar allir vorir vinir bregdast oss, mun hañ æ reynast vor trúfastasti ástvinur; þegar enginn vina vorra fær oss hjálpad, hversu fegnir sem þeir vildu, vitum vér ad hans almáttuga hönd, kann öllu um ad breyta. Vegleiddir af þessum himneska vini, þorum vér óhultir ad gánga úti sérhvörja heimsins háskasemd; undir hans handleidslu hofum vér eckért ad ótt-

ast; honum á vald þorum vér ad fela allar vorar áliggjandi naudsynjar, fullvissir um, ad hann minnist þeirra. Þó allir vorir jardneskn vinir sífellt umkríngdu og önnudust oss, værum vér litlu nær hjá því, sem undir varatekt vors almáttuga vinar; ó! hvörsu þreyngjandi erum vér ecki ætíd til hennar! Æ! þú ástúdlegasti vinur! vor Gud og fyrir Jesúm forlíkadi Fadir! vyrdstú ad géfa oss sképnum þínum enn þá ný vitni þinnar vináttu og kjærleika. Á þúsund afvegi er oss hætt vid ad villast, sem leida kunna oss til tortýnar; vyrdstú ad vera vor leidtogi í gégnum þessa heims háskasemdir, og þegar vér villumst, ad rétta oss þína hjálparhönd ádur enn forgaungum. Þú þeckir grant, ad vér erum fávísar og breiskar manneskjur, sem ecki vitum fótum vorum forrád; vertú því vor rádgjafi. Þu þeckir vandrædin, sem mæta oss í lífinu, og vér sjáum ómögulegt úr ad greida, æ! frelsa þú oss frá þeim! þínum kjærleika fulltreystum vér til þess, sem enginn manna fær oss veitt, en einkum sannfærast um þína elsku, þegar vér deyum, því þá liggur oss mest á henni. Þegar ættíngjar og vinir vorir standa harm-

andi vid vora banasæng, og fá oss ekkert lidsinnt, lát oss þá finna þína huggun og hjálp, og reyna: ad þó vort lif og sál vanmegnist, ertú einn vort hjartans traust og athvarf eilíflega; en á medan þín forsjón skamtar oss hér æfiñar skeid, vyrdstú ad leida oss, med ástríkri fødurhendi, í lífinu, og kénn oss ad elska medbrædur vora, eins og þú elskar oss, þángad til þú innleidir oss í þau ástúdlegu kjærleikans hýbýli, hvar innbyrdis elska á medal þiña útvoldu, mun gjøra oss þetrra sambúd eilíflega yndislega.

## 30. Hugvekja.

Elska skaltú náúnga þinn sem sjálfann þig.

Allir vitum vér, ad þad var einka erindi vors Endurlausnara í heiminn, ad gjøra syndugа meñ sáluhólpna. Med sinni saklausu pínu og dauda, hefir hann fyrir vorar syndir ad fullu bætt; med sínum dýrmæta lærdómi hefir hann kéñt oss Guds vilja til velferdar vorrar; bædi med sinni kénníngu og sínu eptirdæmi hefir hann vísad oss þann rétta veg, sem vér gánga egum í lífinu, med óþreytan-

legri áfiundun í dygdanna framförum. En eins og vor Endurlausnari, framar öllu, hefir oss upphvatt, sem hans sanna tilbydjendur, til ad elska medbrædur vora, og audsýna vora trú med sönnum kjærleiks verkum, svo hefir hann og sjálfur géfid oss hid minnisstædasta kjærleikans dæmi. Af elsku til mannanna géckst hann fús undir allar lífsins mædur og ordugleika; af elsku til mannanna leid hann hatur, ofsóknir og umsátur óvina sinna; af elsku til mannanna þoldi hann þær bitrustu píslir og loksins þann háduglegasta dauda. Engu sídur vottadi hann í umgengni sinni hér á jördunni, sitt kjærleiksfulla hjartalag vid alla, sem eins í líkamlegum naudum staddir vóru og leitudu hans hjálpar; med fúsu og viljugu hjarta lét hann sér umhugadar eymdir þeirra; hann géck um kríng, gjördi gott og grædda alla, sem af þúngum sjúkdómum voru undirokadir. Þó vér fáum nú aldrei nád fótsporum þessa vors himn. elska Forgaungumanns, er þad samt skylda vor, ad képpast eptir ad vera eins sinnadir og Jesús Kristur var, og ad líkjast honum svo sem oss fremst audid er; því hann hefir oss dæmi eptirlátid, ad vér skyldum

fylgja hans fótsporum; en í hvörju gétur oss audunnara ordid ad líkjast honum enn í kjærleiksfullu hjartalagi, og góðgjördasemi vid þurfandi og naudstadda brædur vora, og þad því framar, sem lærdómur vors Endurlausnara upphvetur oss, hvörki bædi ydduglegar né alvarlegar til annarar dygdar enn kjærleikans, og hefir þarhjá sérílagi heitid vorum kjærleiksverkum dýrmætustu umbun. Þú sanni kristni! sem lætur þér annt um, ad feta í fótspor þíns Frelsara, lærdú af honum þessa tvöföldu reglu í æfingu kjærleiksverka þinna: vertú ætíd reidubúinn til hjálpar þurfamanninum, eptir efnum, og þad af fúsu hjarta. Minnstú ætíd, þegar hinn naudstaddi leitar þinnar hjálpar, ad nú géfist þér tækifæri ad líkjast þínum Jesú; minnstú þá, hvörsu fús hann var til hjálpar þeim, sem hans leitudu; minnstú, ad þú átt med hreinskilnum kjærleiksverkum þínum ad votta elskuna til Guds og Jesú; láttú þér í hug koma, ad sá sami Gud skapadi ríkann og fátækann, og ad þú, sem hefir efni til ad hjálpa vesælinginum, áttir ecki meira skilid af Skaparanum enn hann; láttú þér

þá þykja, sem þurfamaðurinn hafi krøfu Guðs til þín um þá aðstoð, er þú mátt honum veita; brestí þig efni honum til bjargar, þá leitaðú honum hjálpar hjá øðrum efnugri; fáir þú ecki með øðru bætt úr böli hans, þá láttú honum þó í ljósi meðaumkun og holl ráð, sem þú álítur best henta hans högum, svo hann sjái með hvílíkri ást og alúð þú vildir honum til hjálpar koma. Varastú að hrella hañ með heiskyrðum eða bríxlum, því Guð er forsvar ens fróma fátæka, sem sjer þitt hjartalag og dæmir þig eptir því. En ef þú, kristni maður! vilt komast sem nærst dæmi þíns Frelsara, þá láttú þér ecki nægja að hjálpa nauðstøddum, sem leita þín, heldur leita þeirra sjálfur; máské þiñ þurfandi bróðir blygðist við að birta þér eymd sína, og einhverjar orsakir aptri honum frá umqvörtun, svo að hann einúngis í leyndum framberi sín harmaqvein fyri Guði, og beiðist hans hjálpar; en þegar þú, øllum óvitandi, aðstoðar þvílíka nauðstadda; þegar þú í leyndum afþurkar þessara heimuglegu tár; þegar þú leitast við að endurhressa kramið og sorgmædt hjarta, þá máttu heita verðugt verkfæri í hendi Guðs, til hjálpar

hans nauðstöddu vesælingum, og þó eckert mañlegt auga hafi sied þin huldu kjærleiksverk, og sért óþecktur af þeim, er þú létst þau i tje, máttú þó gledja þig vid þá umbun, sem Jesús hefir þér heitid, sem meira er verd eñ maña þackir eda fáuhtur lofstýr, þegar hann á alls holds upprisu degi mun útbýta þér henni med þessum ordum: húngradur var eg, og þú mettadir mig; þyrstur var eg, og þú gafst mér ad drecka; naktinn var eg, og þú klæddir mig; í myrkrastofu var eg, og þú vitjadir mín. Hvad þú gjördir einum af þessum minnstu, þad gjördir þú mér; gack nú inn í fögnud þins Herra!

## 31. Hugvekja.

Hverr hefir þeckt sinni Drottins? eda hverr hefir verid hans rádgjafi? (Róm. 11).

Því grangæfilegar sem vér skodum vort líf, því ýtarlegar sem vér yfirvegum jafnvel þau smásmugleguſtu tilfelli, sem oss mæta, því undrunarverdari má oss sýnast guddómlegrar forsjónar stjórnun, og vor vegleidsla í lífinu. Satt er þad, ad vér skamsýnar manneskjur vitum eckert fyrifram hvad oss bera

muni ad höndum, eda um hvörja lífsins gledi- eda sorgar-vegu Gudi þóknast muni ad leida oss; en allteins fyri þad, ad þetta er oss hulid, megum vér vrísa vísdóm hans og gædsku. Mundi þad ecki miklu framar spilla enn bæta rád vort, ef ad vér vissum jafnan fyrirfram hvad oss ætti ad mæta? hvörsu óþolinmódir mundum vér þá ecki bída þeirrar luckn, sem vér vissum oss í vændum? mundi oss þá ecki miklu minna til hennar sinnast, þegar vér loksins hrepptum hana? Svo færi þad og, ef vér fyrifram þecktum óhamíngju eda óláns tilfelli, sem fyrir oss lægi; med ángist og qvida sæum vér þad daglega nálgast oss, og þessi óróssemi mundi, ecki ad eins, svipta oss allri gledi af þeirri hagsæld, sem vér nú ádnjótum, heldur gjora oss fyrisjed ó-komid ófall ad lángvinnu og meira mótlæti. Lofadur veri þá Gud! sem hvört um sig hulid hefir fyrir augum vorum. En þarámót, ef vér gætum þess, sem nú þegar er vid oss framkomid, og lítum til þess umlidna, hvörsu ljósir verda oss þá ecki vegir vors Guds? vér sjáum þá berlega hvörsu hagur vor og lífskjör stjórnudust opt og tídum þvert á móti því, sem

vér stofnudum til, og því, sem bædi vin-
ir og óvinir tilstudludu. Já! þegar vér
grant förum ad skygnast eptir þeim lít-
ilvægu orsökum, sem umbreyttu voru
ástandi eda áformi, án þess vér gættum
þar ad, leidumst vér eptirá til sannfær-
íngar um, ad gudleg forsjón hafi haft
sína hönd þar í oss til ens besta. A þessu
mun hvörr einn fá berlega þreifad, sem
med náqvæmri adgætslu yfirvegar sitt
umlidna líf, og þad honum mætt hefir á
lífsleidinni. Mun eckt, til dæmis, marg-
ur af oss sjed hafa eitthvört ólán eda ó-
heill sveyma yfir höfdi sér, sem annad-
hvört óvinir vorir, eda sjálfra vor ó-
framsýni, eda jafnvel yfirsjón, vóru oll-
andi, en um leid óttast og qvidid fyrir
henni, og þá í brád engin úrrædi sjed,
til ad komast hjá henni! En óvænt, má-
ské eitthvört lítilfjörlegt tilfelli, sem eng-
inn gaf gaum ad, mætti opt, af hverju
leiddi, ad ógæfa sú eda hætta, sem vér
meintum oss óumflýjanlega, og hvörri
vér svo ákaft qvidum, hvarf á burt, en
vér óvænt urdum frelsadir. Hvörju
vildum vér nú tileinka þetta, nema gud-
legrar forsjónar stjórnun, sem lét þá lítil-
vægu orsök adbera, á þeim stad og tíma,

og undir þeim kríngumstædum, ad hún hafa kynni svo heilnæma verkun oss til heilla? Svo margfaldar háskasemdir, sem oss umkríngja í lífinu, hvorjar vér allfærstar þeckjum fyrirfram, svo áþreifanleg er oss ósjaldan eptirá forsjónarhønd vors Guds, sem frelsadi oss opt, fyrr enn vér vissum af þeim háska, í hvørjum vér vórum staddir. Vidlík afskipti hans finnum vér, þegar vér gætum þess, af sérhvørjum høgum vors lífs, og ad hann æ sjer betur fyrir oss, enn vér sjálfir høfdum vit á; stundum qvídum vér einhvørju eptirvæntu tilfelli, sem vér álitum oss óhamíngju efni, og gjørdum allt vort til ad fá því afstýrt, en vorir vidburdir urdu til forgéfins, tilfellid hitti oss, en í stadinn fyrir ad olla oss ógæfu, sem vér qvídum fyrir, vard þad oss til heilla; stundum képptumst vér af øllu megni eptir einhvørju því, sem vér álitum heill vora undirkomna ad ödlast, en allir vorir atburdir brugdust, og eptirá lærdum vér ad þeckja, ad heill vor var ad hreppa þad eckt, er vér helzt girntumst. Já! hvørsu sárlega qveinudum vér ecki allopt yfir einhvørri mædu, sem oss ad høndum bar, en þessi sama mæda

vard opt medal til vorrar lucku og gledi sídarmeir. Sárt harmadi Jakob sonar missirinn, en missir þessi vard þó orsök til Jósephs æru og upphefdar í Egyptalandi, hvar hann forsorgadi sitt gjörvalla Fodurhús. Dásamlegir eru því þeir vegir, alvísi Gud! sem þú leidir oss á í gégnum lífid, allir eru þeir miskun og sannleiki; leid oss því eptir þínu vísdóms rádi, og medtak oss loksins til æru.

## 32. Hugvekja.

Allri ydar áhyggju varpid uppá Gud, hann ber umhyggju fyrir ydur. (1 Pét. 5.)

Ecki er þad einúngis sú ædsta heill vor í þessu lífi, ad mega med öruggu trausti fela oss Gudi, og varpa uppá hann allri vorri áhyggju, heldur er oss þad eldúngis ómissandi í þessum óstödugа heimi, ad trúa almáttugum Gudi fyrir oss og ollu voru rádi; því hvorsu litlu orkar vort veika megn af siálfs dádum til eflíngar vorri farsæld? Þad, sem vér sækjum ákafast eptir, gengur oss úr greipum, allopt jafnskjótt sem vér náum því, og þó vér á stundum ödlumst þad vér eptir sækjum, verdur þad eins

opt ad minnstri heill, hvørju vér mest treystum; svo veikir eru vitsmunir vorir og kraptar. En samt ber oss ecki ad vera afskiptalausum um vora tímanlegu velferd, og vænta alls af forsjón Guds, án þess sjálfir ad leggja þad fram sem í vorn valdi stendur, til hennar eblíngar. Skaparinn hefir innplantad sálu vorri laungun eptir farsæld og ánægju, skynsemi og frjálsræði hefir hann þar til géfid oss, ad vér eptir þeirra rádi og tilvísun, velja skyldum þau medøl, sem best mættu þéna til hennar eblíngar. Þad er oss þessvegna ecki einúngis leyfilegt, ad képpast eptir velgengni med øllum leyfilegum atburdum, heldur er þad skylda vor, og mótstrídir enganneginn því bodi, sem býdur oss ad varpa allri vorri áhyggju uppá Gud; því ad vænta hjálpar af forsjón Guds, þegar vér sjálfir afrækium þau medøl, sem skynsemin býdur sérhvørjum heilvita ad brúka sér til góds, er ógrundad traust, og hefir eckert fyrirheit. En jafnvel þó vér þannig séum skuldbundnir ad leita luclu vorrar, verdum vér æ þess ad gæta, hvørsu oss er villuhætt, svo vér þess vegna fáum ecki med vissu sagt um neitt stundlegt,

hvørs vér óskum oss, ad þad sé fortaks-
laust naudsynlegt til vorra heilla; þvi
hvørsu skamsýnir erum vér, um biltíngu
og afleidíngu ókominna tíma, sem í svip
breyta mega øllu hlutanna ástandi!
Reynslan sannar svo opt, ad þad sem
vér, eptir besstu vitsmunum, meintum
oss í dag gott og gagnlegt, verdur oss á
morgun ad oheill, og þá lærum vér fyrst
ad þeckja vora skamsýni; já! vér finnum
ósjaldan hvørsu ónogir vér erum sjálfum
oss, til ad sjá og ráda fyrir óvæntum til-
fellum, sem mida til heilla vorra eda ó-
heilla; og hvad ætti þá heldur, en þessi
egin reynsla, ad fá oss leidda til ad varpa
uppá Gud allri áhyggju vorri, en kepp-
ast ætíd, þó med varúd, eptir jardneskri
luckn, en þótt hún vyrdast mætti girni-
leg, og aldrei med óleyfilegum medølum,
heldur fela á hans vald, er øllu stjórnar,
og einn þeckir, allt útfall vorra leyfilegu
atburda, og treysta því, hann ber um-
hyggju fyrir oss, hann þeckir og grant
hvad oss, sem lítum optastnær einúngis
á þad nálæga, best hagar; hann skortir
ecki heldur vilja og mátt til ad efla vor-
ar heillir. Hvørsu fúsa má þá ecki þessi
trú til Guds gjøra oss, til ad varpa all-

ri vorri áhyggju uppá hann, og fela í hans vald öll vor efni, hvort sem oss gengur að óskum og atburðir vorir heppnast eða ecki; og hvør lífsregla ætti þá heldur að vera oss hugfastari enn þessi: Fortaksláust vil eg ecki óska mér þess, sem mér er kjærast; ecki vil eg telja mig ósælli fyrir það, þó eg ecki fái ætíð minn vilja; aldrei skal eg mögla á móti mínum Guði, þó hans ráðstafan á högum mínum og tilfellum, verði öðruvísi enn eg kaus og óskaði mér; eg veit hann er minn vísi og allrabesti Faðir, og að eg er hans barn; síst ber mér við hann að ásköða, hvörninn hann efla skuli heill mína; því viss er eg um hans mátt og vilja til þess; þar uppá voga eg að reiða mig í lífi og dauða; eg skal því vera ánægður með hvað helzt hann lætur við mig framkoma. Þessum vorum almáttuga og besta Föður einum, verðum vér deyandi að trúa fyrir sálu vorri og eilífri velferð; því skyldum vér þá ecki eins trúa honum fyrir lífi voru og þess nauðsynjum og óhultir varpa uppá hann allri vorri áhyggju, þareð hann ber umhyggju fyrir oss?

## 33. Hugvekja.

Það er eilíft líf, að þeir þekki þig einn sannann Guð, og þann þú sendir, Jesúm Krist.

Sú mesta heill vor dauðlegra manna hér á jörðu, er vissulega þessi: að þeckja Guð réttilega; en ef vér ná viljum þessari þeckíngu oss til sañra nota í lífinu og oss til sáluhjálpar, þá ber oss að leita hennar þañig og með þeim meðölum, sem þar til eru líkleguſt, eru þau fyrst: yðugleg umgengni með Guði í guðrækilegri og trúaðri bæn, við hvörja vor sála kémst, svo að seaja, í náqvæma sameiníngu við þann óſýnilega og almáttuga Guð; því hvört heldur sá sannkristni, í nauð eða háska staddur, framber sínar andvarpanir og harmatölur fyrir sinn himneska Föður, ellegar með hrærðu hjarta færir honum lofgjörð sína og þacklæti, fyrir báða velgjörníngar, og hans dásamlegu vegleiðslu í lífinu, nema þó gjörvallir hjartans þánkar hans biðjandi sálar stadar hjá Guði, sem hún setur sér fyrir sjónir, eins og hann nálægur væri, og sem þann, er þecki sérhvörn sinn hjartans þánka, viti alla sína þörf og áliggjandi nauðsyn,

og sé líka ætíð fús til að hjálpa úr sérhvörri neyð. Við Guð sinn talar þessi biðjandi kristni, með sömu frómu hjartans einfeldni og öruggri trú, sem gott barn talar við dygðaríkann föður; hañ vyrðir fyrir sér óteljanlega velgjörnínga síns Guðs, sem hann þyggur, ásamt svo mörgum öðrum meðbræðrum sínum, og gleður sig af því, að vita sem flesta verða þeirra aðnjótandi, svo að sem flestir megi við þá uppörfast til að elska og vegsama ásamt sér, þann miskunnarríka mannaña velgjörara, sem hann veit að hefir nógann vilja og mátt, til að útbýta svo margvíslegri blessun sérhvörjum, er honum best hagar. Af þvílíkri yðuglegri umgengni við Guð í bæniñi, lærum vér og að þeckja hañ rétt, oss til sannra nota; vér fáum þá sjálfir að reyna, að öll góð og öll fullkomin gjöf kémur frá honum, og að hañ hefir föðurlega meðaumkun með sínum nauðstöddu börnum. Hans miskunnarríki kjærleiki og vísdómsfulla forsjón, verður oss því tilbeiðsluverðari, sem vér betur komumst að raun um það, hvörsu dásamlega hañ stjórnar vorum lífstilfellum, og hvörsu náqvæmlega hann lætur sér umhugaðar

vorar þarfir; en þó náum vér eñ þá fullkomnari þeckingu á Gudi, þegar vér venjum oss til, ad setja öruggt trúnadartraust til hans nádar. Ad þeckja Gud og eginlegleika hans einúngis eptir því, sem vor mañlega skynsemi fær imindad sér þá, verdur oss samt fyrst hugguuarríkt, eptir þeirri ávísun, sem Jesús, syndaranna Forlíkunarmadur, hefir siálfur gefid oss, því hann hefir kéñt oss ad þeckja hañ, sem vorn forlíkada Födur, sem þañ, sem ætíd er fús og reidubúinn til ad fyrirgéfa oss vor afbrot, þegar vér ydrumst þeirra af hjarta og snúum oss til hans; því meiri og fleiri sem vér þeckjum vorar syndir, því framar sañfærumst vér um miskun vors Guds, sem vill samt taka oss svo brotlega til nádar, og þar af leidir þad náttúrlega, ad vor kjærleiki til hans verdur því heitari, sem vér þeckjum betur ad oss er meira uppgéfid; því framar kappkostum vér og framvegis ad framgánga med óflekkadri samvitsku, svo sem fyrir hans alskygna augliti, og þetta samvitsku vidqvæma framferdi er, auk þessa, eñ þá nýtt medal til ad læra betur ad þeckja Gud. Þessi vor samvitska, sem er vottur alls þess, er vér adhöfumst, á sífellt

yfir því að vaka og gæta þess, sem Guði er þóknanlegt; þar af vitum vér, segir Guðspjallamaðurinn Jóhannes, að vér þeckjum hann, ef vér höldum hans boðorð; hvörr sem segir: eg þecki hann, og heldur ecki hans boðorð, sá er lygari, og enginn sannleiki er í honum. Þegar sú innilega laungun eptir að þócknast Guði, stjórnar gjörvöllum athöfnum vors lífs og voru hugarfari, þá heitir það fyrst, að vér þeckjum Guð rétt, oss til sannra nota, því þá verður sú þecking oss til sálargagns bæði hér í tímanum og síðan í eilífðinni. Þar ó vor Guð! munum vér enn fremur sannfærast um: að það er eilíft líf, að þeir þecki þig einann sannann Guð, og þann þú sendir, Jesúm Krist.

## 34. Hugvekja.

Oss lángar, með sjálfum oss, eptir óskabarna réttinum, og vér væntum eptir lausn vors líkhama. (Róm. 8.)

Sérhvörr, sem vyrðir fyri sér með nákvæmri athygli ásigkomulag mannlegs lífs, má játa sanna afmálun þá er Móses gaf fordum: þegar lífið er sem kostulegast, er það mæða og erfiði; því

hvørr er sá daudlegi, hvørn stødugt telja megi friañ frá allri líffins mædu, hvørt sem hann á ad sér mikid eda litid? aldrei er hér i heimi ad stóla uppá støduga luctu, hennar hverfula hjól snýst svo ódt um kríng, ad ecki má auga á festa. Sá sem i dag heldur sig óhultann hvíla i luckunnar skauti, má opt ad nærsta dags morgni finna sig umvafinn eymdum; og þó menn héldu sig óhulta fyrir þvílíkum luckunnar biltíngum, má þó jafnan qvída, ad daudann, sem enginn fær umflúid, muni adbera þegar minnst varir, og ad hañ gjøri snøggann enda á lífinu og allri þeirri ánægju, sem menn nutu hér af svipulum heimsgædum. En hvad er þá til, sem gjørt fái ofs líf þetta æskilegt? má ecki um þad og allt stundlegt segja med Salómoni: ad þad sé eintómur hégómi? Já, vissulega mætti þad litilsverdt heita, ef ad vér ættum ofs enga ædri, enga stødugri luctu i vændum, heldur enn þá, sem ofs er kostur géfinn á ad njóta af fallvøltum munum þessa heims; og ætti vor tilverutíd med øllu þrotin vera, ad endudum þessum fáu, en opt mædusømu, hérvistar-døgum; vér mættum þá vesælastir

heita allra Guds sképna, eptir Postulans atqvædi, ef ad vér vona ættum á Gud einúngis fyrir þetta skammvinna líf. Ad sönnu hafa nockrir fornallda Spekíngar mörg líkleg rök til þess leidt, ad sálin ecki deya mundi þó líkaminn dæi, en enga almenníngi áreidanlega og fullvissa ástædu hafa þeir þar um talid. En lofadur veri Gud, sem um þetta mikilvæga efni hefir géfid oss, til gledi vorum ódaudlegu sálum, skírari fullvissu, enn mannleg skynsemi fécк ádur uppgötvad; Jesús Kristur, heimsins mikla ljós, sem af Gudi var í heiminn sendur til ad upplýsa alla menn hefir lífid og ódaudlegleikann í ljós leidt. Hann hefir opnad oss sjónir á því, sem hulid var daudlegra manna augum; lærdómur hans sannfærir oss þar um, ad þetta líf sé einúngis ad álíta, sem byrjun eda undirbúníng vors eginlega lífs, eins og vor barndóms alldur, á hvörjum vér búast egum undir miklu dýrmætara líf, sem tekur þar vid, er þetta þrýtur, en sem þadan af skuli engann enda taka. Þessi lærdómur kénnir oss, ad sála vor, sem ódaudleg vera, egi fyrir höndum ad flytjast inní endalausa eilífd, en líkaminn endurlífgadur, af gröfinni á sídan upprisinn,

sálunni á ný sameinadur, ad taka eilífa hlutdeild í þeim kjørum, sem sálunni eru veitt. Tveñslags ástand hefir þessi sami Jesú lærdómur opinberad oss, ad øllum dauðlegum sé fyrirbúid í þessari eilífd, sem sérhvørjum ágvardast skuli, eptir því, sem hvørr einn hafdi sig undir hana búid, á medan hann lifdi hér í heimi, því ómetanlega farsæld egi þeir í vændum, sem med þolinmædi stundad høfdu í gódum verkum, ad gjøra sig heñar verduga, en hørmúng og hrellíngar muni þeirra hlutfall verda, sem illa breyttu. Um eilífdarinnar farsæld, sem útvøldum fyrirbúin sé, hefir Jesú lærdómur gefid oss skíra undirvísun og gledilega afmálun, sem nægja má oss til uppørfunar kappsamlega ad ástunda, ad gjøra oss hennar verduga, sømuleidis oss til huggunar á lífsins mædudøgum, en eiña helzt vid adkomu daudans; því eckí einúngis hefir vors Endurlausnara lærdómur opinberad oss þess sæla lífs ásigkomulag, sem bídur dygdugra manna, heldur og kennt oss, hvørnig vér hér í lífi ættum ad búa oss svo verduglega undir þad, ad vér mættum þess njótandi verda, med því trúlega ad

breyta eptir lifsreglum þeim, er hann fyrilagt hefir sérhvörjum kristnum, sem sáluhólpin vilji verda. Hañ krefur því, ad vér venjum oss af løstum, spornum vid sérhvörri syndugri tilhnegíng, hreinsum oss af øllum holdsins og andans saurugleika, en leggjum alla alúd á framfarir í rádvendni og dygdum, svo vér fáum gjørt vora útvalníngu vissa. Reynslan hefir kénnt oss ad þeckja þessa stutta lífs fallvalta hégóma og forgengilegleika, en gudleg opinberun eilífdarinnar endalausu farsæld, og því skyldum vér þá ecki láta oss annt um ad odlast hana, og heldur kjósa ad fara á mis vid sérhvörja sæld þessa heims, enn ad missa vonina um eilífdarinnar sælu, sem oss er géfinn kostur á sídan ad hreppa? Von þessarar dýrmætu sælu gjøri oss því óþreytanlega í verkun vorrar sáluhjálpar, og styrki oss í lífi, lídun og dauda.

## 35. Hugvekja.

Áminnir nockurr, sá hyggi ad þeirri áminníngu.

Þad dýrmæta kjærleikans bodord, sem býdur oss ad elska náúngann eins og sjálfa oss, innibludur líka skyldu þá, ad vér skulum ala ønn fyrir brædra vorra

andlegu og líkhamlegu heillum, eins á-hyggjusamlega og vorum egin. Allir beckjum vér skyldu vora, ad hjálpa nauðstøddum brædrum vorum í uppáfallandi vandrædum þeirra, svo framt vér høfum efni og tækifæri til; en þar med høfum vér þó engannveginn fullnægt þessu kjærleikans bodordi, sem býdur oss því meiri umhyggju ad bera fyrir brædra vorra andlegu þørfum, sem eilíf velferd þeirra er þessari tímanlegu mikilvægari. En hvørsu fáir gæta nú skyldu þessarar? almennt halda menn sig hafa fullnægt náúngans kjærleiks skyldu, géfi þeir svaungum ad eta, kasti flýk á þann nakta, eda géfi þurfamønnum ølmusu í gódri meiníngu, máské á stundum óhaganlega eda þeirra saña ástandi lítt kunnugir; en ad leida þann á réttann veg, sem villtur fer, ad advara og áminna þann, er í løstunum anar, sem blindur, fram til egin ólucku, þad álita menn skylduņni midur vidkomandi, og þó er þad Guds útþryckilegt bodord: straffa þú, heitir þad, bródur þinn, svo ad þú berir ecki skuld hans vegna; þad er Jesú lærdóms bod, géfid sérhvørjum kristnum: ef madur verdur á einhvørn hátt af nockrum bresti yfirfalliñ, þá leid-

réttid hann med bógværum anda. Vér höfum þar um eñ framar Jesú egid dæmi, sem oss er sett til eptirbreytnis; hañ lét sér ecki nægja, ad metta húngrada, ad lækna sjúka af allsháttar kránkdæmi; nei! andlegar meinsemdir maña lét hann sér í mestu rúmi liggja. Hann kénndi fáfródum, leiddi þá á réttann veg, sem villtir fóru, advaradi og áminnti syndugu, og vardi allri áhyggju til þeirra betrunar. Ef ad þú, kristinn madur! vilt hér í breyta eptir Frelsara þínum, þá láttú þér vera annt um, ad fá bródur þinn, sem þú sjer villuráfandi, leiddann aptur á réttann veg, áminnt hann og advarad vid háska þeim, sem þú sér hann stofna sér í med framhaldi á lastanna vegi. Viljir þú samt vænta þér, med advørun og áminníngum þínum, ad fá hañ til betrunar leiddann, máttú gæta þess, ad haga þeim vel og forsjálega, ætíd med varhygd og gætni. Sjálfselskan er þess ollandi, ad menn almeñt affaka eda dylja lýti sín og ávyrdíngar, bædi fyrir sjálfum sér og ødrum; vilja því optast sýnast betri, enn þeir eru í raun réttri, hvar af leidir, ad mønnum er eckert vidqvæmara enn ad adrir hræri vid brestum þeirra,

einkanlega þeim, sem þeir eru af náttúru hneigdir til, og eru þeim því med lángri ætíngu kjærir vordnir og ad vana. Ef þú þess vegna stundar ad fá bresti þíns hrasada brodurs lagada og hann betradann med áminníngum, máttu varast ad brúka vid hann beiskyrdtar ádeilur, heldur byrja þær ætíd med hógværd og blídlyndi; ber þér því fyrst ad leitast vid ad ávinna þér ást hans og traust, um hvad þú mátt gjøra þér von, þegar þú fær hann þar um sannfærdann, ad einúngis laungun eptir hans velferd leidi þig til ad lagfæra hans bresti og fá hann vaninn af þeim. Med jafnblídri adferd áttú ad setja honum fyrir sjónir, í hvílíka ógæfu hañ steypi sjálfum sér med framhaldi á lastanna vegi, og gjøra honum audsjena ógjæfu þá, sem fyrri eda seinna þar af leida muni, en undir eins ber þér alúd ad sýna, ad honum verdi eins skiljanlegt, hversu hollt og naudsynlegt honum verda megi, ad láta af íllu en læra gott ad gjøra. Fáir þú med þesshattar fortølum bródur þinn leiddann til apturhvarfs þá útmála einnig fyrir honum, ad þó ørdugt finnist ad afneita sjálfum sér og afleggja gamlann synda vana, þá sé sigur yfir sjálfum sér

allra veglegastur; en þó honum finnist dygdanna vegur, sem hann nú áſetji ſér ad feta, gagnstædur gédslagi hans, og þyki því ordugur, þá ſé þad ecki nema fyrst í ſtad, en æfíngin gjøri hann audfarnari. Þess vegna, til ad gjøra hann fúſari ad fylgja heilrædum þínum, er æ hentugt ad leida honum, ecki einúngis ſjálfra dygdanna ágæti fyrir ſjónir, heldur og þá dýrmætu umbun, ſem dygdum er heitin í þeſsu og komanda lífi, og ſem eru jafn dýrmæt og æſkileg, ſem ófarir þær, er af löſtum leida, mega óttalegar verda ſérhverjum ſkynjandi manni, ſem man til eilífdartunar. Sæll ertú, kriſtni madur! heppniſt þér ad fá med þeſsu móti afvegafarinn bródur þinn á rétta leid; því hverr, ſem ſyndaranum ſnýr frá villu hans vegar, hefir frelſad önd frá dauda, og mun hylja fjølda ſynda.

## 36. Hugvekja.

Sløckvid ecki Andann. (1 Thess. 5).

Eckert gott tré ber ſkémdann ávøxt, og eckert ſkémt tré gódann ávøxt. Menn ſamanleſa ecki fíkjur af þyrnum, ecki heldur vínber af þiſtlum. Gódur

madur framber gott af gódum sjód síns hjarta, og íllur madur íllt af vondum sjód síns hjarta, sagdi Jesús fordum til Gydínga-folks; og er bad mála sannast; bví girndir og athafnir vorar hafa sín fyrstu upptök frá hjartalaginu. Sá, hvørs hjarta er gott, gjörir god verk, en hinn, er vondann mann befir ad geyma, fremur fúslega íllt, eptir því, sem hans íñvortis hjartalag er betra eda verra til; ad miñsta kosti gjörir hañ fátt það, sem í raun réttri gétur gódverk heitid; þess vegna er allt undir því komid, ad hjartalagid sé gott. Sá, sem vill skirrast vid íllt, án þess ad bæta hjartalag sitt, hann má heita ad byggi hús sitt á sandi. Engiñ er af náttúrunni allskosta gódur, og engiñ ad öllu leiti vondur. Það er því skylda sérhvørs, sem gódur vill vera, ad efla og styrkja hjá sér þær gódar tilhnegíngar, sem hann af náttúrufari er hneigdur til, en dempa hinar vondu, og er jafnmikil þörf á hvørju um sig, því heldur, sem jafnvel gódar tilhnegíngar kuña vid forsómun þessarar skyldu, audveldlega ad nidurþaggast. Svo sýnir reynslan, ad einatt fari hjá þeim, sem ecki lætur sér annt um, ad vidhalda og efla hjá sér

sañа mañelſku; úr hjarta hans uppræt-
iſt þún ſmámſaman, því áminnir Poſtul-
iñ Páll ecki óſyriſynju þá theſſaloniſku
meñ: ad útſlöckva ecki Andann;
þad er ad ſegja: ad útrydja ecki úr hjarta
ſínu því kriſtilega huaarfari, vegna hvörs
vér vogum ad kalla Gud vorn födur, og
ſem er pantur uppá arfleifd vora á himni.
Yfrid mikid rídur oſs því á, ad rót-
feſta og ſtödugum vidhalda þeſſum Kriſts
anda ívorum hjörtum, og láta hañ ſtjórna
öllum athöfnum vors lífs. Þá má þad
heita ad Gud búi í oſs, og vér í honum.
En fyrſt og fremſt liggur oſs á, ef vér
temja viljum oſs þetta gudlega ſiñlag,
rétt ad þeckja ſjálfa oſs og vorar tilhneg-
íngar, ætíd ſtyrkja hjá oſs betur og betur
þær gódu, en nidurþagga þær vondu, og
þared almennur mannkjærleiki er ein af
þeim dygdum, ſem eptir Kriſts lærdóms
bodi prýda á ſérhvörs kriſtins manns
hjarta, egum vér ad láta oſs annt um,
ad nidurkéfja þær tilhnegíngar, ſem heñi
géti til hindrunar vordid. Misſkilin
ſjálfselſka er þeſs allopt ollandi, ad vér
lítum framar eptir voru egin enn ann-
ara gagni, og afrækjum þeſs vegna eins
opt ſkyldu þá, ſem oſs ber ödrum ad

audsýna, jafnvel verdur sjálfselskan tídum undirrót margra lasta, einkum aseilnis, ránglætis, øfundar, mannhaturs, og eñ fleiri ódygda, hvorjar allar eru gagnstædar Krists bodi, sem býdur oss ad elska adra eins og sjálfa oss. Því skadlegri, sem þeir lestir eru, sem rángskilin sjálfselska af sér fædir, því framar ber oss ad láta oss annt um, ad fá henni rétt stjórnad, med því ad rótfesta hjá oss sannann mann-kjærleiks anda, sem vid sérhvört tækifæri láti sig í ljóst. Þess vegna er oss áríðandi, ádur eñ óleysileg egingirni, sem audveldlega kann nidur ad kjæfa mannelsku tilhnegíngar í voru hjarta, verdur hjá oss ad vana, ad venja oss á, ad uña ødrum eins og oss sjálfum, og stunda til þeirra gagns, sem vors egin. Aldrei megum vér því leita eginn ávinnings vors eda frama, odrum til tjóns eda nidurdreps, né á nockurn hátt ad verda þeim ollandi sorgar eda hugar-ángurs med ordum eda verkum; heldur egum vér, eptir sama kjærleikans bodi, ad bera medaumkun med lídandi brædrum vorum og létta, af mætti undir þeirra mædubyrdi, en fagna yfir velgengni þeirra, jafnt vorri egin, þá fullnægjum vér bodord-

inu, að fagna með fagnendum, og gráta með grátendum. Þessa elsku og kristnum verðuga hjartalag egum vér að auðsýna í blýðri umgengni með bræðrum vorum. Þetta er hin vissa rokssemd fyri því, að vér séum sannkristnir, og vottum blýðni vora við Jesú boðorð: elskið hverr annann innbyrðis, þar af þeckja allir, að þér eruð mínir Lærisveinar.

## 37. Hugvekja.

Augað má ecki segja hendinni: eg þarf þín ecki við, né höfuðið fótunum: eg þarf yckar ecki við. (1 Cor. 12.)

Náttúrunnar niðurröðun hefir Skaparinn þannig hagað, að eckért er sjálfbjarga eða einfært sjálfu sér til viðhalds, svo það samsvarað fái áqvörðun sinni, án þess það njóti þar til styrks af öðru. Til dæmis að taka: ef gras og jurtir ega að dafna á jörðunni, verða þær að frjófgast af loptsins vökva og sólarinnar hita. Náttúrleg tilhneging hvetur sérhverja lifandi skepnu til að ala önn fyrir uppheldi afqvæmis síns, uns það er sjálfbjarga orðið til að leita sér lífs uppheldis. Þannin viðheldst nátt-

úran óumbreytt, eptir Skaparans á-
qvørdun í øndverdu, ad allt skuli studla
til vidurhalds því gjørvalla. Allt eins
og Skaparinn hefir í náttúrunni øllu
þanninn nidurradad, eins hefir hann og
ætlad til ad sama vera skuli í mannlegri
sambúd í heiminum, svo ad enginn má
kallast sjálfum sér fullnógur án annara
adstodar, heldur þarf hvørr ad styrkja añ-
ann, og sérhvørr gjøra sitt til almeñings
heilla, undir eins og hann eblir sína eg-
in. Án þessa fær eckért mannlegt félag
stadist edr orlid farsælt. Í þessu tilliti
áminnir Krists lærdómur oss, ad vard-
veita bródurlegann kjærleika innbyrdis
vor á milli, ad breyta eins vid adra
og vér óskum ad adrir breyti vid oss.
Páll Postuli býdur enn framar: ad
vér skulum álíta oss alla, sem einn lík-
ama, og hvørr annann eins og limi ens
sama líkhama, sem einkis lima siña megi
án vera; augad megi því ecki seg-
ja: eg þarf þín ecki vid, edr høf-
udid fótunum: eg þarf yckar ecki
vid. Sérhvørt stand vidþarf annars,
eckert má hins án vera, allir limir
borgaralegs félags ega því med samein-
udum kroptum, ad styrkja til samegin-

legs gagns; 'en þá blýtur sérhvørr limanna, eptir efnum sínum og ástandi, ad leggja þad fram, sem í hans valdi stendur, til ad ná sama augnamidi. Þeir, sem ráda løndum og ríkium, ega ad géfa þau løg, sem mida til almeníngs heilla; løg, sem haldi þeim óhlutvanda í taumi, aptri þeim ríka frá ad undiroka fátæklínginn og ad áseilast hann, fyri-byggja alla rángsleitni og ofríki. Allteins er þegnanna skylda, med audsveipni ad sýna yfirbodaranna løgum og bodum, sem mida til almennrar farsældar, skylduga hlýdni, ecki einúngis varast øll lagabrot, heldur og gjalda med fúsum vilja þad, sem løgin sérhvørjum bjóda, og þarhjá gjøra allt, sem í þeirra valdi stendur, samqvæmt laganna tilaángi, til heilla eblíngar síns Fødurlands. Þessarar skyldu fær sérhvørr gætt, í hvørju helzt standi sem hañ er. Til þessa midar einkum, sem øllum ber ad íhuga: kristileg, skynsøm og sidsamleg hússtjórn, gudrækilegt barna uppeldi, svo þau med alldrinum verda megi sér nytsøm og ødrum uppbyggileg. Til þess midar dygd og hollusta hjúa, er stunda ega gagn sinna húsbænda, hvørt þeir eru nær eda fjær. Til almeníngs

heilla ega þeir efnugu að stuðla með því, ecki einúngis, að Postulans boði, að gésa og útbýta, þareð þvílíkt offur þócknast Guði vel, heldur og hjálpa með forsjálni til þess, að fátækir fái hentugleika til, hvorr eptir hans ástandi og kroptum, sjálfir að abla sér atvinnu, svo að þeir ecki þurfi uppá aðra vera komnir, eins og þessir eru skyldugir til, eptir sama Postula boði, að því leiti þeir megna að vinna sjálfir fyrir brauði sínu; því húsgángsmenn og letíngjar ega ecki mat að fá. Þanninn sjáum vér nú, að hvorr og einn, af hvörju standi sem hann er, fær stuðlað til almenníngs hagsælda. Hvað einn ecki orkar, megna fleiri með sameinuðum kroptum, ef allir eru samhuga í að styrkja hverr annann, allteins og sérhvorr limur á sama líkama (sem einkis þeirra má án vera), stuðlar til alls líkamans viðhalds og þarfar. Enginn má því gleyma héraðlútandi Postulans Páls áminníngu: að sérhvorr gæti ecki einúngis að sínu gagni, heldur og að añara. Með þessari viðleitni breytum vér samqvæmt vorri kristiñdoms skyldu.

---

# 38. Hugvekja.

## A Páskum.

*Kristur, sem dó vegna vorra synda, er upp aptur risinn á þridja degi, eptir Ritníngunum. (1 Cor. 15).*

Nafliðnum Föstu-tíma höfdum vér það lærdómsríka efni fyrir höndum, að hugleida vors Endurlausnara Jesú pínu og dauða, en nú býðst oss nýtt og gledilegt, þar sem oss nú bodast: að sá samt Jesús, sem með bitrustu qvölum lét sitt líf á krossinum, Föstudaginn næstann fyrir Páskahátídina, og var þar eptir greftradur, sé á Páskadaginn, hvorn vér höldum í dag, endurlifnaður og úr grofinni upprisinn. Engin fregn gat oss géfist gledilegri né huggunarríkari enn þessi: að vor Endurlausnari, sem fyrir oss dó, sé upprisinn frá daudum; því þessi bodskapur: að Jesús, sem dó á krossinum, sé endurlífgaður og aptur upprisinn, leidir oss til þeirrar fullvissu:

1. Að vér, syndugir menn, séum forlíkadir vid Gud, og af honum teknir til nádar; vér vitum að gjörvallt mannkyn hafdi afvega gengid, og því fallid í ónád vid Gud, og undirorpid því straffi, sem

réttlæti hans krafdi ad gánga skyldi yfir afbrotamenn hans bodorda, en miskunarríkur Gud, sem af hjartgróinni ást til hans skynsemu, en breisku sképna, aumkadist yfir þess fallna mannkyns eymd, fann því og gaf vesælum syndurum til frelsis, þad dýrmætasta hjálpar-medal í sínum elskulega Syni, sem sjálfur vitnar: ad Gud hafi svo mjøg elskad heiminn, ad hann hafi Son sinn útgéfid fyrir hañ, til þess, ad allir þeir, sem á hann trúa, ecki skyldu fyrirfarast, heldur eignast eilíft líf. Jesús píndist því og dó, eins og Ritníngin vitnar, eptir Guds frá eilífd ágvardada rádi, til frelsis sekum syndurum; þad straff, sem þeir hofdu verdskuldad, leid hann svo sem syndaranna borgunarmadur, sjálfur saklaus, og á sálu og líkhama, í vorn stad, bitrustu qvalir og krossins dauda; en til þess, ad syndugur heimur ødlast mætti efalausa fullvissu um, ad þad synda offur, sem Jesús þannig frambar fyrir þá seku, væri af Gudi, sem fullnustu krafdi af þeim syndugu fyrir afbrot þeirra, gyldt metid, hlaut sjálfur Gud þessa fullvissu ad géfa, og hana gaf hann þá óefanlegustu med því, ad

uppvekja Jesúm frá daudum; þar med auglýsti hann, ad hann ánægdur væri med þad offur, sem Jesús frambòrid hafdi fyrir mannanna syndir, og ad hans, réttlæti væri þar med fullnægt; ad hann, vegna Jesú pínu og dauda, sem hann leid í syndugra manna stad, væri vid þá forlíktur, og ad hann fullgylda tekid hefdi þá borgun, sem þanninn útlagt hafdi þeim til frelsis; því vitnar Páll: Gud forlíkadi heiminn vid sjálfann sig fyrir Krist. Þannig befir þá sjálfur Gud med síns Sonar Jesú upprisu, géfid oss, sem á hañ trúum, óefanlegustu fullvissu um qvittun vorra synda, fyrir hans skuld, sem dó fyrir þær, og uppreis oss til réttlætis. Nú vitum vér, ad eckért er fordæmanlegt á þeim, sem í Jesú Kristi eru, þeim, sem ecki gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum. Nú kuñum vér trúaröruggir ad undirtaka med Postulanum: hverr vill áklaga Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir; hvørr er sá, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er; já, enn miklu framar sá, sem upp aptur er risinn, situr á hægra veg Gudi og bidur fyrir oss.

2.) Í annann máta géfur Jesú upprísa oss fullvissun um, ad vor trú á hann sé ekalaust grundvøllud, því vér vitum nú, ad þared hann er uppristinn og sestur á hægri hønd Gudi, gétur hann haldid øll þau heityrdi, sem hann géfid hefir sínum trúudu. Øll vor von um þeirra uppfyllíngu, hefdi á engum føstum grundvelli hvílt, ef vér ecki hefdum þá fullvissu, ad hann væri þess megnugur; øll vor von og trú á Krist væri þá, eins og Postulinn Páll vitnar, ónýt, ef hann væri ecki frá daudum upprisinn, því hvørnig gæti hann þá, eptir sínu lofordi bedid sinn himneska Fødur fyrir oss? hvørnig þá sendt oss sinn heilaga anda? hvørnig þá vardveitt sína kristni og verid hjá oss til veraldar enda? en nú, fyrst hann er frá daudum upprisinn, vitum vér ad øll hans fyrirheit eru óefanleg, og ad oss er óhult ad fulltreysta þeim. Hann er nú hjá Gudi og bidur fyrir oss, og gétur gjørt þá sáluhjólpuna, sem fyrir hann koma til Guds, vér vitum ad hann lifir eilíflega, og ad maktin og ríkid er hans.

3.) Í þridja lagi høfum vér orsøk til ad gledjast af Jesú upprísu vegna þess:

ad hún géfur oss ecki einúngis óefanlegá fullvissu um sannleika Jesú lærdóms, heldur einnig um vora egin upprisu og nýrt líf ad þessu endudu, eins og Jesús hefir oss kénnt. Pad, sem þeir vitrustu heidíngjar eptir óskudu, en leiddu þó ad eins í gétgátu, ad líf væri til eptir þetta, þad hefir Jesú upprísa, til fagnadarsællrar gledi sérhvørri ódaudlegri sálu, gjort óefanlegt. Jesús hefir oss þetta ecki einúngis med ljósum ordum kunngjort, heldur hefir hañ eñ fremur sýnt og sañad med sinni upprísu, ad þetta, sem mañviti voru sýndist ómøgulegt, ad endurlífga og uppvekja af grøfunum dauda líkhami, var, fyrir hans almættis krapt, møgulegt. Jesú upprísa, eins og lærdómur hans, fullvissar um, ad sú dyña grøf skal á sídan skila aptur þeim daudu, sem í hana vóru lagdir. Hvílík gledisjón opnast oss ecki hér, daudlegum mønnum? Jesús er upprisinn og lifir; vér egum einnig ad upprísa og endurlifna; hvørsu gledirík má oss ecki vera þessi fagnadarsæla fullvissa? nú burthverfur sérhvørri trúadri sálu allur ótti fyrir dauda, grøf og forrotnun, sem oss daudlega qvelja mátti vid daudans adkomu. Ecki festum vér nú

lengur auga á þessu 'óstoduga og stutta lífi; ecki á grofinni, sem vér egum ad leggjast í; ecki á þeim lánga svefni, í hvörjum vor líkhami á þá íkyrrdum ad hvíla; nei, nú lítum vér glodu, vonarfullu auga framyfir allt þetta, og festum þánkana á því, sem í vændum er á sídan. Ad lídinni þessari dymmu daudans nótt, upprennur ljómandi morgunrodi, sem bodar oss fagnadarsælann gledidag hins komanda nýa lífs, til hvørs vorir fúnu líkhamir, sem í jørdunni hvíla, skulu med almættis krapti þess, sem skóp þá í øndverdu', endurlífgadir upprísa, og njóta endalausrar sælu, í eilífum sambúdum med vorum Endurlausnara og øllum hans útvøldu. Jafnvel þó vér, á medan vér íklæddir erum þessum daudlega líkhama, ecki fáum gjørt oss fullskíra hugmind um þessa komanda lífs sæla ástekomulag, þar ed Ritníngin útmálar oss þad einúngis í samlíkíngum, sem teknar eru af því veglegasta og girnilegasta, sem vér þeckjum hér í lífi, efalaust þess vegna, ad eginleg útmálun þess hefdi verid oss ofhá og óskiljanleg, er oss eugu ad sídur, eptir Jesú Krists lærdóms opinberun, svo mikid bert og

audskilid, ad hinna sælu himinbúa farsæld, mun miklu meiri verda, já, miklu dýrdlegri, enn vér daudlegir gétum oss hér á jördinni ímindad edur oskad oss. Víst er og þad, sem sami Jesú lærdómur med berum ordum vitnar, ad vér þar verdum fríir frá öllu vondu, en munum vaxa þar í þeckingu og fullkomnun, og alltaf uppstiga frá einni sæluñar tröppu til annarar ædri, til ad njóta þeirrar sælu, sem Guds Andi í Ritníngunni sýnist hafa útmálad oss sem skírast og skiljanlegast med þessum ordum: þad hefir ecki auga sjed, ecki eyra heyrt og aldrei hefir þad í nockurs manns huga edur hjarta komid, hvílík sú sæla er, sem Gud hefir tilreidt sínum útvöldu.

Þessi er sú sæla, sem Jesús hefir oss heitid; þetta þad nýa líf eptir daudann, sem Jesús, med sinni upprisu, hefir gjört oss fullvíssa um ad vér ættum í vændum. Látum oss því, kristnir meñ! leggja allt kapp á, þann tíma vér lifum hér í heimi, ad gjöra oss þessarar dýrmætu og ævarandi sælu verduga! Þar til vyrdist gódur Gud ad géfa oss nád sína og adstod í Jesú nafni! Amen!

# 39. Hugvekja.

## Á sídasta Vetrardag.

Hverr, sem situr undir skjóli ens Hæsta og skugga ens Almáttuga, sá segir til Drottins: mitt traust, mitt slot, minn Gud! á hvern eg vona. (Ps. 91).

Já, undir skjóli þess Hæsta og skugga hins Almáttuga, má sérhverr af oss vidurkéña, ad hann setid hafi þessa Vetrar-tíd, sem nú lídur út. Kvídandi máttum vér, sem vonlegt var, byrja Veturinn, þegar vér settum oss fyrir sjónir þau hættu tilfelli mannlegs lífs, sem oss á honum búin vóru; þá hørdn vedráttu, sem venjulega fylgir Vetrar-tímanum í voru kalda landi, og ollir opt mønnum og sképnum tjóns og hættu á sjó og landi. Med ángistarsømu auga leit efalaust margur fátæklingur, vid Vétrarins byrjun til tímans, sem þá fyrir høndum var, þegar hann hafdi ecki fyrir augum sér þad, er nægja vyrdtist til atviñu sér og sínum, né klædnadi til skjóls í vetrar-kuldanum. En eilíflega vegsamadur sé vor gædskuríki almáttugi Fadir! sem eñ þá þetta afstidna missiri hefir audsýnt oss sína trúføstu umhyggju, já, látid oss sañfærast um sína

guddóms forsjón, er leiddi oss svo dásamlega gjorvallann Veturinn út, til nálægs tíma, ad engin ólucka mætti oss, né nockur háski grandadi. Sú orláta hend, sem útbýtir fædslu allri lifandi sképnu, og sier fyrir næríngu þeim fuglum, er fljúga um í vetrar-kuldanum, var fyrir oss ecki aptur lukt. Forsjón vors Guds og umhyggju megum vér miklu framar prísa, eñ forsjálni vora, ad vér lidum enga nauð, né þúngañ atviñu brest þeña aflidna Vetur, og ecki einúngis hefir vors Guds náqvæma umhyggja alid onn fyrir þorfum vorum um þessa Vetrar-tíd, heldur einnig fyrir ánægju vorri og gledi. Lífsins lucku og unadsemdar hofum vér adnotid í ástúdlegri umgengni vina vorra og vandamaña, sem gloddu oss og hughreystu, þegar eitthvad mótdrægt eda ordugt ad hondum bar; en þegar eitthvort þad mótlæti eda mæda hendti oss, sem hvorki sjálfir vér né vinir vorir fengu rádid bót á, þegar þær naudir adbáru, úr hverjum vér sáum enga frelsis von, og vor úrrædi urdu þau ein, ad flýja med audmjúkri bæn á nádir vors Guds, hverjum aldrei verdur rádafátt í vandrædunum, né nockurntíma um megn ad hjálpa þeim naudstoddu, þá

fundum vér, já, med sannri hjartans tilfinníngu; og þacklæti játum vér þad, 'þá þreifudum vér á því, hvørsu eyru vors miskunar-ríka fødurs stódu æ opin fyrir vorum qveinandi barma-kløgunum, og hans almáttugi armleggur var þá útréttur til hjálpar og frelsis oss, er vér vórum í naudum staddir. Vitni þad hverr af oss í sinn stad, hvørt hann, þegar hann af trúundu hjarta bad Gud, fór nockurntíma óbænheyrdur frá honum, eda leitadi hans forgéfins, svo ad hann hvørki fengi rauna léttir né endurnæríngu í eymd sinni! en segi oss þad nú einnegin samvitska vor og sú endurminníng umlidinnar vetrar-tídar, sem upprifjar fyrir oss gædsku Guds og velgjørnínga, er vér á henni medtókum, hvørt vér høfum verdskuldad þvílíka fødurumhyggju, sem vér reynt høfum ad Gud hefir fyrir oss borid, eda svo náqvæm afskipti af høgum vorum, oss til lucku og blessunar? hvørr af oss þarf lángrar umþenkíngar til audsvara þessari spurníngu? allir vér, hvør med ødrum, megum efalaust játa, ad vér á aflidnum Vetrar tíma, eins og á ødrum lífs-stundum vorum, høfum til straffs og hegníngar unnid af Gudi en engra velgjørnínga. Fyrir hvørsu marg-

ar syndir, drýgdar á afliðnum Vetri, hefdum vér nú ecki ydrun ad gjøra vid Vetrarins enda, ef vér gættum þess syndir, sem — því midur! — margur hvørr drýgdi af ásetníngi; syndir, af vana og tilhnegíngu, sem vér þo þeckt-um ad mógdudu vorn góda Fødur, hvern vér, hvørsu sem syndgudum honum á móti, fundum þó ad hjartanlega elskadi oss, og ól fyrir oss trúfastaønn? En — jafnvel þó Guds náð, sem kroptug hef-ir reynst í vanmætti vorum, hafi vard-veitt nockra af oss frá vísvitandi syndum, megum vér þó allir, hvørr med ødrum, vidurkénna: ad vér þrálega syndgudum af gáleysi og brádrædi; en — hvørsu mikid gott høfum vér ecki forsómad af því, sem vér áttum ad gjøra og gátum gjørt? Þegar vér nú íhugum, med verdugum eptirþánka, framferdi vort á umlidnum Vetri, og géfum undir eins gaum ad því, sem oss á honum mætt hefir, má oss ecki einúngis mikl-ast lánglundar géd Guds og óþreytan-leg þolinmædi vid mannanna vondsku, heldur enn framar hans óumrædileg náð og miskun vid oss syndugа, sem erum hans nádar óverdugir. O! því fram-

ar, sem vér megum nú vera sannfærdir, bædi um vorn óverdugleika, og líka um hans hollunnædi og nád vid oss, því framar ætti nú ríkdómur hans umskunar ad hafa hjá oss þá verkun, sem hann tilætlar; en, eptir engu ødru enn eqin luckn vorri leitar hans trúfasti kjærleiki, þar til midar allt hans umburdarlyndi med syndnum vorum; þar til midar hans náqvæma umhyggja fyrir vorum høgum; þar til mida allir vors Guds óteljandi velgjorningar, og allt, sem hann lætur oss mæta í þessu lífi; allt á þetta, undir hans stjórnun, ad leida oss til farsældar; en þessarar luckn fáum vér þó alldrei ordid adnjótandi, nema vér séum í sátt vid Gud, því er einka medalid til þess, ad komast í sátt vid hann, og ødlast aptur hans vinfengi, fyrir syndara, sem af sér brutu hans nád, ad ydrast syndanna af einlægu hugarþeli og bæta sitt líferni; sú ydran er uppbyrjan vorrar luckn, sem mildi Guds leidir oss til, med nádarríkri medhøndlun sinni. O! látum þá ecki þvílíka nád vors Guds, sem einúngis midar til vorra egin hellla, verda forgéfins. Nú, þegar oss er í ferskn minni vid Vetrarins enda, bædi

gædska hans, sem leiddi oss Veturinn út, og þær syndir, sem vér á honum drýgt höfum, sem bædi eru margar og miklar, vogum vér ecki ad renna augnunum til þess komanda Sumars, án þess ad leita fyrirgéfníngar á þeim, med hreinni ydrun, og apturhvarfi frá syndunum og löstum.

Vér snúum því, vid Vetrarins lok, hjarta voru og munni til þín, miskunsami og gódi Gud! lofadur, eilífliega lofadur og vegsamadur sért þú fyrir þad, ad þú hefir lofad oss lifandi ad útenda þenna Vetur! lofadur vertú fyrir alla þá nád, — náqvæma umhyggju, miskun og trúfastann kjærleika, sem þú hefir oss á honum látid í tje! lofadur vertú fyrir alla oss á honum veitta óverdskuldada velgjørnínga! en vér fáum þeirra ecki minnst án þess, ad sú endurminníng veki hjá oss blygdun yfir þeim syndum, sem gjørdu oss þeirra óverduga. Æ vor gódi Fadir! vér höfum eckért, vesælir! ad bæta fyrir oss med; uppá þína nád, sem óendanleg reynist sérhvørjum, er hennar leitar med ydrandi hjarta, og í trausti vors Endurlausnara Jesú, er bætti fyrir vorar synd-

ir, erum ver aumir ad ollu leiti komnir. Í hans nafni vogum vér ad bidja þig, ad fyrirgefa oss allt þad, sem vér á afliðnum Vetrar-tíma høfum brotið á móti þér, og vort trúnadartraust til þín, hvørn vér reynt høfum svo gædskuríkañ Fødur, er þess fulløruggt, ad þú munir uppgéfa oss alla vora miklu skuld, þegar þú sjer ad oss af hjarta ángrar þad vonda, sem vér drýgt høfum, og einsetjum oss einlæglega ad verda hér eptir betri. En—þú þeckir best vorn óstødugleika í því góda, og er kunnugastur vanmáttur vor til ad framqvæma þad. Þiñ kraptur, almáttugi Gud! gjøri oss æ stødugа, og ebli oss veika í øllu gódu! Med fulltrausti um þína nádugu bænheyrslu þessa, endum vér þeñañ blessada Vetur, og væntum oss, af nád þinni, farsælla í hønd farandi Sumar-tíma, en þegar vorrar hérvistar Vetrar-tímar lokfins enda taka á jørdunni, styrki þá hjarta vort ørugg trú og von um þad, ad vér egum þá fyrir høndum umbreytíngarlausum gledistundum ad fagna í þinni dýrd, sem aldrei mun enda taka.

# 40. Hugvekja.

## A fyrsta Sumardag.

Fel þú Drottni þína vegu, og vona þú á hann, því ollu mun hañ vel til vegar koma. Ps. 37.

Eptirlaungunina, ad vita fyrirfram hvad á ókomnu tímunum mæta muni, fiñur sérhvorr af oss i sálu siñi, og er þessi eptirlángan ecki ósjaldan blønd: ud ótta og qvida fyrir þeim mædu-tilfellum mannlegs lífs, sem vér sjáum fyrir møguleg eda og líkleg ad tilbera kunni. Vid tímanna umbreytíngar, vid ára og midsára-skipti, verdum vér hvad helzt varir hjá oss þessarar eptirlaungunar, þegar vér rennum augunum fram á veginn til þeirra tíma, sem fyrir hønd-um eru og vér egum úti ad gánga. Þad er því náttúrlegt, nú vid tímaña breytíngar og uppbyrjun nýrrar Sumar-tídar med þessum degi, þó oss hvarfli í huga sú spurníng: hvad mun sérhvørjum af oss á þessu Sumri ad høndum bera? ad soñu høfum vér á þessum degi óskad sjálfum oss og hvørr ødrum luckulegs Sumars, en þegar vér reñum þaunkunum til hinna margvíslegu tilfella þess mannlega lífs, má ecki undra, þó qvidi fyrir

ógédfeldum, ásamt verda kunni vort hlutfall. Sá, sem gladur og ánægdur byrjadi Sumarid í morgun, spyr því: hvort hann muni þad og, í sama ásigkomulagi, fá útendad? mun eg heilbrygdur fá Sumarid aflifad? mun eg ánægju njóta af ástvina minna sambúdum þetta Sumar út? munu mín fyrirtæki heppnast, og mínir næríngar útvegir? mun eg eins frí verda Sumarid út, og nú í dag, fyrir mædu og eymdum? — Somuleidis spyr sá, sem vid lífsins mótlætíngar á ad strída: munu mínar eymdar-stundir enn þá ecki enda taka á þessu Sumri? mun sama rauna-byrdi, sem nú tekur til ad verda óbærileg á mínum herdum, ecki af þeim létta Sumarid út? uppá enga af þessum efasømu og óttablønduðu spurníngum, fær nockurr einn af oss med vissu svarad; en — svo órólegir og qvídafullir, sem vér verda megum, vid umþenkíngu ókominna tilfella á þessu Sumri, svo megum vér þó þanninn andsvara sjálfum oss: ad vér vera megum óqvídnir fyrir hvørju helzt tilfelli, sem oss gétur ad hendum borid, því: allir vorir dagar standa í hendi Guds; allir vorir ókomnu tímar og sér-

hvørt tilfelli, sem oss á þeim mæta mun, er innilukt undir forsjónar hønd þess Almáttuga; hann hefir svo náqvæm afskipti af høgum vorum, ad eckért vort høfudhár kann ad skérdast án hans vilja, og svo er hann máttugur, ad móti hans makt fær enginn stadid. Þessi almáttugi Gud, sem vakir yfir velferd vorri, hann er, fyrir Krist, vor forlíkadi Fadir, og elskar oss med óunrædilegum kjærleika, sem sín børn. Hann hefir med vísdómi og gædsku áqvardad þad, sem á þessu Sumri oss ad høndum ber; en hvad helzt, sem þad verda kann, hlýtur þad undir hans stjórnun ad verda til eblingar luckn vorri og velferd. Þó er þess ecki ad vænta, ad þad, sem Guds alvísa rád áqvardad hefir ad vid oss skuli framkoma á þessu Sumri, svari ætíd til vorra óska, því vér, fávísar mannsképnur! vitum sjaldan hvad oss er fyrir bestu; vér lítum optast-nær einúngis til hins nálæga, og óskum oss þess, sem auka megi vora nærverandi ánægju og gledi, án þess ad ígrunda hitt, hvørsu hollt oss muni þad verda fyrir seinni tímana; en — sá Alvísi, sem lengra sjer fram í veginn enn vér, sem betur

sier hvad oss hentar enn vér, hann út. býtir oss því einu, sem hann sier oss heilladrjúgast bædi í brád og lengd. — Oss skal því ecki undra, þó lucknóskir þær, sem vér í dag gjörum oss, rætist ecki ad ollu leiti á þessu Sumri; þó sá barmandi fái ecki ætíd raunaléttir þann. inn og á þeim tíma, sem hann æskir sér; þó ad fyritæki vor heppnist ecki oll eptir vorri tilstofnun; þó ad luckunnar umbreytingar mæti oss þær, sem kunni ad vera oss ógédfelldar; nægi oss hitt, ad vér erum þess fulltrúa, ad hvad helzt sem vor gódi og almáttugi Fadir hefir áqvardad vid oss framkoma skuli í Sum. ar, hlýtur ad þéna oss til góds, ef vér toknm því, sem hans rádstofun. Mæti oss þá eitthvort mótlæti á Sumri þessu, sier hann oss þad hollara enn medlætid, hann sier oss þá sjúkdóminn heilsusam. legri enn heilbrygdi; orbyrgd heldur enn nægtir; sorg heldur enn gledi; líf heldur enn dauda, láti hann þetta, held. ur enn annad, verda vort hlutfall, og þessi trú til vors Guds, um nidurrød. un og áqvordun ókominna tilfella vorra, fær gjort oss óqvídna og orugga fyrir

hvørju helzt, sem oss mæta kann á þessu nú í dag byrjada Sumri. Med þvílíka trú, sem grundvallar sanna mannlega luckn, ánægju og rósemi í þessu lífi, megum vér, á þessum fyrsta Sumardegi, óska hvørr ødrum til luckn, og vænta oss nægra heilla af henni Sumarid út, og allar vorar ókomnu æfistundir. Mæti mér — segi því sérhvørr af oss, styrkur vid þessa trú — á þessu komanda Sumri, hvad helzt mæta vill, allt mun þad adbera eptir rádi míns Guds; látum vera, ad þad sé hulid fyrir mínum augum; látum vera, ad þad strída kunni á móti áformi mínu og óskum; engrar skal þad abla mér ábyggju! eg veit, ad allt þad, er vid mig framkémur, skédur ad rádi þess alvísa og góda Guds, sem er minn elskulegur Fadir, og sjá mun betur fyrir rádi mínu enn eg sjálfur. Hans rádstøfun og vegleidslu vil eg, rétt eins og barnid, á hendur fela mig og allt mitt rád; eg vil fylgja honum, hvørt sem hann kallar mig; eg vil trúa honum til þess, sem hann hefir lofad mér; eg vil lída þad, sem hann leggur á mig, því eg er þess fulltrúa, ad hvør helzt luckukjør, sem mér

mœta, þó mér finnast megi þau ógéðfelld, munu, undir hans stjórnun, verða meðal til minnar velferðar. Á mótlætíngunum, þó eg ætti að líða þær þúngbærar, hefir hann heitið mér vegsamlegum enda; mína gjörvalla jarðneska lucku þetta Sumar út, veit eg minn alvísa Föður hafa þanninn fyrirhugað, sem mín eilífa velferð útkrefur; rólegur vil eg því og óqvíðinn vænta þess, sem hann ályktað hefir að við mig skuli framkoma, og í trú til hans forsjónar halda áfram á mínum lífs vegi. En — ef að vér viljum nú vænta oss þess, að hvílíkt traust til Guðs gjört líf vort luckulegt, í hvörjum helzt tilfellum, sem á því mættu adbera, verðum vér að ástunda af fremsta megni, að lifa eptir hans boðum. Til þess að innræta hjá oss það áform, einsetjum vér oss nú á fyrsta Sumardaginn, eptirfylgjandi lífsreglur, sem vér trúlega viljum varðveita Sumarið út:

1.) Eg vil með hreinu hjarta og ráðvöndu framferði framgánga þetta Sumar, eins og fyrir augum alsjáanda Guðs leynt og ljóst; varast að styggja

hann med ordum, gjørdum og hugreñingum, en af fremsta megni taka mér fram í því góda. Engum vil eg gjøra skada, heldur stydja ad annara ánægju og heillum, eins og mínum egin, þá mun samvitska mín hughreysta mig og gjøra mig rólegann, þó eitthvad mótdrægt mætti mér, þegar hún ber mér vitni um, ad eg sé ecki skuld í mótlæti mínu.

2.) Øll leyfileg medøl vil eg á Sumri þessu brúka, til ad efla med lucku mína og velgengni. Med forsjálni, ydjusemi og trúskap í miñi stétt, sæ eg marga hættu umflúid, og mikid gjørt til eflíngar lucku minni og ánægju. Þegar eg hefi gjørt allt hvad mér er møgulegt, kann eg rólegur ad fela Gudi útfall athafna minna, sem sjá mun fyrir því mér til besta.

3.) Samt sem ádur skal engin nagandi búksorg né ágirndar ergia ná rætur ad festa í hjarta mínu. Aldrei skal eg á Sumri þessu, eda endrarnær, leitast vid ad bæta mín luckukjør med óleyfilegum hætti eda útvegum; optastnær verdur þvílík adferd og ómak til ólucku; og þó mér heppnast kynni ad fá þad, sem eg sýkist eptir, verd eg þó ecki luckusælli vid þad. Máské sú lucka, sem eg ákafast eptir-

irsækí, olli mér seiña mestu sorgar, og verdi efni til míns eginn skada. Eg bid því Gud, ad útbluta mér því einu, sem hann sjer mér hentast; eg bid hverki um fátækt né ríkdóm, heldur einúngis um ánægt hjarta med þad hañ géfur mér.

Þegar vér festum oss nú þegar í hjarta þessar lífsreglur, og fylgjum þeim trúlega, höfum vér þar um grundada von, ad þetta Sumar muni oss farsælt og blessad verda. Þér, vor eilífi, miskunsami Fadir! fulltreystum vér til þess, ad leida oss luckusæla; þinni guddómlegu forsjón og Födurkjærleika, selum vér á vald líf vort og sálu og oll vor efni á Sumri þessu; vardveittú oss frá ollri ólucku; vernda oss frá ollum háskasemdum á sjó og landi; blessadú oll vor leyfileg fyritæki; géfdú oss ánægt hjarta med alla þína rádstöfun, og láttú allt þad góda, sem þú á Sumri þessu útbýtir oss, hvetja oss til ad elska þig æ meir og meir og ástunda, sem vora ædstu luckn, af ollum kreptum ad þócknast þér. Þegar þú, vor Gud! vardveitir þessa þánka í sálu vorri, lifum vér gladir í voninni um þad: ad hverjar helzt luckunnar umbiltingar, sem oss mæta, munir þú leida oss í gégnum þær og oll tímaskipti, eptir þínu gædskuríka rádi, og medtaka oss lokfins á hæfilegri tíd þángad, sem engin tímanna umbreyting verdur framar.

## Bæn i Utgaungu Vetrar.

Med gladværum anda og lofsỹngiandi túngu prísum vér þig, vor Fadir og Herra himins og jardar! vor hjálp stendur i þínum höndum; þín miskun og trúfesti er stadfest yfir oss, þínum skynjandi sképnum, frá öndverdu heims, frá kyni til kyns, i strídu sem blídu. Vetrarins hörkur og hardvidri giörir þú ad þínum þénurum; hagl og eldíngar ad þínum sendibodum, er kéña ega oss varhygd og viturlega tímans brúkun. Þú mentar oss þannig, gódi Gud! til ædri fullkomnunar sídar-meir; þess végna prísar vor sála þig, og þacklát vidurkéñir: allt er af þér med vísdómi niðurskipad, allt þitt ráð, öll þín stjórnan og vegir eilíf speki og gædska. Þú ert verndari hins volada, sem rádvandur treystir þér; vort örugga athvarf hefir þú verid á tíma neydar og mañrauna þeña Vetur, eins og allar afliðnar æfistundir, því skulum vér af hjarta á þig vona, og gledja oss vid þá vissu: ad þú svo fúslega hjálpar. Þú géfur Sumar eptir Vetur, skin eptir skúr; þú tiptar ad sönnu, en ofurgéfur þó ecki daudanum.

Lofadur sé Gud! sem leidt hefir oss lifs og heila fram ad þessa Vetrar enda, forsorgad oss og frelsad frá mørgum þecktum, en þó vist ótal fleiri óþecktum háskasemdum. Fagna skulum vér því og gladir segja: lofad sé nafnid Drottins ad eilífu, Amen!

## Bæn í inngaungu Sumars.

Vegsamad sé þitt dýrdarfulla nafn ad eilífu, alvoldugi tímanna Stjórnari! þitt ord, Drottinn! er sannleikurinn, og þín fyrirheit bregdast alldrei; þú býdur, svo skédur þad; þú skipar, og þad stendur svo; þín stjórnan er vásamleg, og þín niduradan í náttúrunni raskast ecki um alldur og æfi. Þú hefir skapad Sumar og Vetur, ljós og myrkur, frost og hita, blídt og strídt, allt hefir þú þad tilsett til þarfa oss, þínum skepnum; sú vísdóms skipan stendur enn þá stødug: Veturinn er aflidinn, en Sumarid tekur vid. Lof sé þér fyrir lidnar lífsstundir! já! eilífar þackir séu þér fyrir hlífd og vidhald, bjørg og blessun og allt gott oss veitt og géfid til lífs og sálar á aflidnum Vetri! því framar, sem vér høfum verid komnir uppá þína nádugu varatekt, því áþreifanlegri hefir þú auds‑ sýnt oss hana. Þú hefir hlíft oss fyrir verdskuldudu synda-straffi; fyrir slísum og líftjóni; enginn almenn neyd hefir nád ad granda oss, eda voru kjæra Fødurlandi: allar Vetrarins óblíd‑

ur, allar þínar føðurlegu bendíngar til vor, hafa stýladar verið með náqvæmustu vægð og vorkunsemi; já! øll þín viðhøndlan, ráð og vegir yfir oss, hafa verið einskjær miskun og trúfesti. Vér høfum syndgað, vér høfum verdskuldað straff, en þú hefir audsýnt oss náð; æ! lát hana framvegis haldast yfir oss, í Jesú nafni! Géf oss með nýu Sumri nýa blessun! farsæl oss þínar gáfur, þitt lán og allar skèpnur! farsæl vora útvegi, vort erfidi og atvinnu og allt það, er vér tøkum oss fyrir hendur til sjós og lands, í þínum ótta. Bjóð lopti, jørð og sjó að færa oss þína blessun, en géf oss, með þakklæti og sannarlegri auðmýkt, að taka við því øllu, hvert það verður mikið eða lítið, sem þín speki álítur þénanlegt að úthluta oss, til hagsælda og nota, af jarðneskum gæðum þetta Sumar. Efl hjá oss stødugt trúnaðar-traust til þinnar forsorgunar, og varðveit oss frá óþarfa výli og heiðínglegri búksorg. Þú, vor himneski Faðir! veitst hvers vér viðþurfum, uppfyll alla vora nauðþurft, eptir þínum dýrðar ríkdómi í Jesú Kristi. Í hans nafni byrjum vér glaðir Sumarið; géf að það verði oss blessunarríkt og notasælt undirbúníngs- og fullkomnunar-tíð, til ríkuglegrar uppskèru á síðan í eilífðinni, Amen!

---

